# Evangelisk-kristileg
# Messu-saungs-
og
# Sálma-Bók,

ad konúnglegri tilhlutun
samantekin
til almennilegrar brúkunar í
Kirkjum og Heima-húsum,
og útgéfin af því
konúnglega íslendska
Lands-uppfrædingar Félagi.

EDITIO IV.

Videyar Klaustri, 1825.
Prentud af Faktóri og Bókþryckjara
G. J. Schagfjord.

## Til Abgætslu
vid
# Messu-gjörd.

Eptir Þad samþringt er til Messu, ega Prestarnir ad láta i kór-dyrum lesa á öllum Messu dögum þessa bæn og Fadir vor á eptir.

Drottinn! eg er inkominn i þetta þitt heilaga hús, ad heyra hvad þú, Gud Fadir, minn Skapari! þú, Drottinn Jesú, minn Frelsari! þú, verdugi heilagt Andi, minn Huggari! i þínu ordi vilt vid mig tala. Drottinn! opna þú svo med þínum heilaga Anda, fyrir Jesú Krists skuld, mitt hjarta, ad eg kunni af prédikununni læra, ad vera ángur fyrir minar syndir, i lifi og dauda trúa á Jesúm, og daglega betra mig i dygdugu liferni og framferdi. Þad heyri og bænheyrt Gud, fyrir Jesúm Krist, Amen! Fadir vor, etc.

Strax ad því búnu byrjast saungurinn, og framheldst tvo fyrstu Sálmana út. Þegar þeir eru útsúngnir, snýr Presturinn sér ad fólkinu og tónar:

**Drottinn sé med Ydur!**

Forsaungvarinn og fólkid ansar:

**Og med þínum anda!**

Presturinn snÿr sér aptür að Altarinu og tónar:

**Látum oss biðja:**

og síðan þá Collectu, sem deginum heyrir, eptir Handbókinni. Forsaungvarinn og Fólkið ansar: Amen!

Þá snÿr Presturinn sér fram að fólkinu og tónar: Pistilinn skrifaði Postulinn (sá sem Handbókin sÿnir.) En sé Lectian annarstaðar að finna, enn í Pistlum Postulanna, þegar Presturinn sér þar eptir og segir: Þessi heilaga Lectia stendur skrifuð í N. N. Spádóms bók (eða) Postulanna Gjörningum, (eða) Opinb. bókinni eða eptir sem vel hljóðir þessu að umbreyta; tónar hann svo pistilinn skírt og seint.

Eptir Pistilinn skal syngja þann Sálm, sem Presturinn hefir hjer til valið í bókinni, en að honum búnum snÿr Presturinn sér fram og tónar:

**Drottinn sé með Yður!**

Forsaungvarinn og Fólkið ansar:

**Og með þínum anda!**

Presturinn tónar svo:

**Eptirfylgjanda heilagt Guðspjall skrifaði Guðspjallamaðurinn N. N.**

Forsaungvarinn og Fólkið ansar:

**Guði sé lof og dÿrð fyrir sinn gleðilegann boðskap!**

Síðan tónar Prestrurinn Guðspjallið seint og greinilega til enda. Að því búnu er súnginn sá Sálmur, sem Presturinn hefir valið til og fundið að hljóða uppá sitt ræðu efni; við hans lok stígur Prestur í stól og heldur þar sína ræðu. Á hátíðum er súngið það vers, eða sá Sálmur, áður en Guðspjall er lesið í predikunar-stól, sem Presturinn hefir hjer til valið, samqvæmt efni hans og tímunum, en ella ekkert. Eptir predikun sÿngist það

vers, eda sá Sálmur, er Presturinn hefir þar til ætlad; en egi børn ad skíra, eda konfirmera, eda opinber aflausn ad framfara, biriast þá strax og Prestur síñar úr stól, þeir Sálmar eda þau vers, sem sérhverju af þessu hlýda, eptir þessari Messusaungs-bók og Presisins fyrirmælum, og aflýkur hann þar eptir sérhverju af þessu. Séu nockrir til Altaris þann dag, er sungid versid No. 212, sídan snýr Presturinn sér fram og les eptirfylgjandi áminníngu til þeirra, er gánga til Altaris!

Sakir þess, mínir kjærustu Krists vínir! ad þér réttilega og maklega mættid medtaka þad háleita Sakrament Qvøldmáltídar vors Drottins, þá ber Ydur einkum þessa tvo hluti ad vita og skilja, sem er: hvad Þér skulud trúa og gjøra; því þessum ordum, sem Kristur sagdi; **þad er minn líkhami, sem fyrir Ydur verdur géfinn, og, þad er mitt blód, sem fyrir Ydur úthellist, til fyrigéfníngar syndaña**, skulud þér fullkomlega trúa, ad svo í sañleika er; því Jesús Kristur er þar sañarlega sjálfur hjá, med sínum líkhama og blódi í Sakramentinu, eptir ordaña hljódun. Þar næst skulud Þér og svo trúa Krists ordum, til syndanna fyrirgéfníngar, þad: ad Jesús Kristur

skenkti ydur sinn líkhama og blód, til tïïsiglis og stadfestíngar uppá allra ydar synda fyrigéfníngu. Ad sídustu skulud þér fyllilega gjöra Krists skipun, þar hann svo býdur ydur, segjandi: medtakid og etid! sömuleidis: direckid hér af allir! og: gjörid þad í mína minníngu! því hann hefir géfid oss sinn líkhama og blód ad eta og drecka til fyrirgéfníngar syndanna, og þar med ad miñast hans heilaga dauda og pínu. Þar fyrir, þegar Þér svo trúid þessum Krists ordum, og breytid eptir hans skipun, þá erud Þér rétt prófadir og reyndir, sem Postulinn Páll segir, og megid svo maklega eta Krists líkhama og drecka hans blód, til fyrirgéfníngar syndanna. Þar til géfi ydur Gud himneskur Fadir sins heilaga Anda nád, fyrir þann sama Jesum Krist vorn Herra; og þar um viljum vér allir Gud bidja af hjarta og segja:

Þegar sú áminníng er útlesin, snýr Prestarinn sér ad Altarinu og tónar skírt og seint eptirfylgjandi bæn:

Látum oss bidja!

Fadir vor! þú, sem ert á himnum. Helgist þitt nafn. Tilkomi þitt ríki. Verdi þinn vilji, svo á jördu sem á himni. Géf oss í dag vort daglegt braud. Og fyrirgéf oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgéfum vorum skuldu-nautum. Og eigi leid þú oss í freistni. Heldur frelsa oss frá illu.

Forsaungvarinn og Fólkid ansar: Amen!

Svo tekur Presturinn Pátinuna med braudinu sér í hönd á medan hann tónar eptirfylgjandi Innsetningar-ord.

Vor Herra Jesús Kristur, á þeirri nátt, sem hann svikinn var, tók hann braudid, gjördi þackir og braut þad og gaf sínum Lærisveinum, og sagdi: takid og etid! þad er minn líkhami, sem fyrir ydur verdur géfinn. Gjörid þad í mína minningu.

Því næst tekur Presturinn Kaleikinn sér í hönd, og tónar hin Testamentis ordin, segjandi:

**Sömuleidis eptir qvöldmáltídina, tók hann kaleikinn, gjördi þackir, gaf þeim hann og sagdi: dreckid allir hér af! þad er kaleikur ens nýa Testamentis í mínu blódi, sem fyrir ydur úthellist, til fyrigéfningar syndanna. Gjörid þetta, svo opt, sem þér þad dreckid, í mína minningu.**

Séu fleiri til altaris í einu, enn ad kaleikurinn á skenktur endist þeim, leggur hann hendina, á medan hann þetta tónar, til skipta á kaleikinn og á þær vínflöskur, sem á Altarinu standa ellegar, les sömu ord lágt upp aptur í hvert sinn brand eda vín þrýtur á pátinu eda kaleik, med sömu adferd.

Á medan Presturinn þar eptir útdeilir, segir hann vid sérhvern, er Sakramentid medtekur; *þetta er Jesu sannur líkhami; þetta er Jesú sannarlegt blód.* Um Útdeilinguna söngur Forsaungsvarinn og fólkid þá Altaris-gaungu Sálma, sem Presturinn hefir fyrirlagt, þó ecki lengra af þeim, enn versid, sem á stendur, þegar útdeilingin er búin. Þar eptir söngist versid No. 218; ad því endudu snýr Presturinn sér fram og tónar:

**Drottinn sé med Ydur!**

Forsaungsvarinn og Fólkid ansar:

**Og med Þínum anda!**

Því næst snýr hann sér að Altarinu og tónar eptir fylgjandi bæn:

Látum oss biðja!

Vér þökkum þér, Drottinn, almáttugi og eilífi Guð! að þú með þessari heilsusamlegri gjöf hefir oss alla nært; vér biðjum þína miskunsemi: að þú látir nú þessa þína gáfu koma oss til alls gagns og góða, og til vorrar sannrar trúarstyrkingar á þér, og til brennanda kjærleika og elsku á meðal vor innbyrðis; fyrir sakir nafns þíns elskulegasta Sonar, Jesú Krists, vors Drottins og Herra.

Forsaungvarinn og Fólkið ansar: Amen!

Þegar enginn er til Altaris, tónar Presturinn, í stað þeirrar bænar, eptirfylgjandi bæn:

Látum oss biðja!

O Herra Guð, himneski Faðir! vér þökkum þér fyrir þenna þinn föðurlegann velgjörníng, að þú af þinni miklu náð og miskunsemi, hefir gefið oss þitt heilaga og sáluhjálplega orð, með hvers

ju þú einninn hér hjá oss safnar þinni kristilegri kirkju. Vér biðjum þig auðmjúklega: géf oss þinn heilaga Anda, að vér með þakklátu hjarta mættum taka við því, og hegða oss þar eptir, og ætíð og ydugloga fara vaxandi í kristilegri trú og kjærleikanum, og svo loksins sáluhólpnir verða, fyrir þinn elskulegann Son, Jesum Krist vorn Drottinn, sem með þér lifir og ríkir í einingu heilags Anda, sannur Gud, frá eilífð til eilífðar.

Forsaungvarinn og Fólkið ansar: Amen!

En um alla Lánga-föstu, skal í þessarar bænar stað, á Sunnu og Bæna dögum tóna þessa bæn:

Látum oss biðja!

Vér þökkum þér, Gud Faðir! að þú hefir géfið oss þinn eingétinn Son Jesúm Krist, uppá það, að allir þeir, sem á hann trúa, ecki fyrifaristt, heldur hafi eilíft líf. Vér þöckum þér, Jesú Kristi! að þú hefir borið vorar syndir á þínum líkhama, og með þinni pínu afmáð vorar

yfirtrodslur. Vér þöckum þér, þú verdugi heilagi Andi! ad þú hefir géfid oss þá trú í vor hjörtu, ad vér eckert vitum annad til sáluhjálpar, enn þann krossfesta Jesúm Krist. Géf oss, o Gud! þína nád, ad vér fullkomlega trúum, ad allar vorar Syndir séu, fyrir Jesú pínu og dauda krapt, oss fyrirgéfnar. Upplýs oss med þínum heilaga Anda, ad vér, fyrir Jesú dauda, daglega afleggjum syndina, og aldrei sleppum Jesú úr vorum hjörtum, þángad til vér sjáum hann berlega í eilífu lífi. Þessa bidjum vér þig allir í nafni Jesú Krists, vors Herra.

Forsaungvarinn og Fólkid ansar: Amen!

Þá snýr Presturinn sér fram og tónar:

Drottinn sé med Ydur!

Forsaungvarinn og Fólkid ansar:

Og med Þínum anda!

Sídan blessar hann yfir Fólkid og tónar:

Drottinn blessi þig, og varðveiti þig! Drottinn láti sína ásjónu lýsa yfir þig, og sé þér náðugur! Drottinn upplypti sínu augliti yfir þig, og gefi þér frið!

Forsaungvarinn og Fólkið ansar: Amen!

Þegar Konfirmerað er, tónar Presturinn ekki þessi blessunar-orð, fyrr enn Konfirmatiónin er búin.

Síðan er sá Útgaungu Sálmur súnginn, sem Presturinn hefir valið, hlíðandi uppá ræðu-efni hans. Á undan Katekisation er súngið No. 312, eða 313, og eptir Katekisation No. 130, eða 314. Endast svo Embættis gjörðin með eptirfylgjandi bæn, sem lesin er í kór-dyrunum, og Faðir vor.

Drottinn! eg þakka þér af öllu minu hjarta, að þú hefir nú kénnt mér, hvað þú vilt eg skuli gjöra. Hjálpa mér nú, minn Guð! með þínum heilaga Anda, fyrir sakir Jesú Krists, að eg megi varðveita þitt orð í hreinu hjarta, þar af styrkjast í trúnni, í guðrækilegu framferði betrast, og mig þar við í lífi og dauða hugga, Amen! Faðir vor, etc.

# Innihald Sálmanna.

## I. Lofgjerdar og Packlætis-Sálmar.



## II. Bænar Sálmar.

# I. Lofgjørdar- og Packlætis-Sálmar.

## I. Guds Vera og Eginlegleikar.

### No. I.

Lagid: Vér trúum allir á einn Gud, Skap.

Vér trúum allir á einn Gud; er hans verk himin og jørdin; ástríkur Fadir er vor Gud; ætt hans mañeskjan er ordin. Hañ vill ofs vort uppheldi veita, vel ad sál' og lifi gæta; ei lætur óluckurata, engum voda megum því mæta. A hann vér setjum von og traust, því vís hann er, máttugur, gódur endalaust.

2. Vér trúum og á Jesum Krist, eingétinn Guds Son vorn Herra; á heims Frelsarañ Herrann Krist, hvers dýrd aldrei kann ad þverra. Madur ordinn

hann er, hafinn, hardt á kross-tré, daudur, grafinn. En hann rikir æ lifandi, upp hjá Drottins hægri hendi; þadan med kräpti kémur hann, kémur ad dæma jardrikid og sérhvern mann.

3. Vér trúum á Anda heilagann, af Fødur og Syni sendann. Oss frædir, styrkir, huggar hann, helga bæn til Guds fær kénda. Krists um heiminn kéning' breidir, kjært til aptur hvarfs menn leidir: einninn trúna eflir rétta, og von betra lifs enn þetta, hvar odlast munum fognud, frid, og fullsælu þá, er um eilifd varir vid.

## No. 2.

### Te Deum.

Lagid: Kom! Skapari heilagi Andi!

Hér, mikli Gud! sé mesti pris, vor mildi Gud! vér þockum þér; hverr er svo sém þú hár og vis? hverr svo sem þú frá eilifd er?

2. Kerúbim hátt þitt heidra nafn, hátt þér Serafim róma dýrd; útvaldra lika sálna safn, samhljómar þinn Engla hirð.

3. Heilagur ertú, Herra klár! heilogust Vera sí-lofud, heilagur Gud um eilif ár, allsherjar Drottinn og vor Gud.

4. Lof þitt frá hæstum himna kór, hljómar um alla vída jord, Spámanna hópur hefir stór, heidrad þitt nafn med þackargjord.

5. Postular hafa prísad þad, og Písl-arvotta mergdin flest, á daudastundu dáðust ad, dásemdar verkum þínum best.

6. Þig, heilog kristnin, Herra Gud! heidra um tíd og eilífd má, þig, Fadir! sem ert sañur Gud, Son er í dýrd þér lifir hjá.

7. Og gódañ helgañ Anda þiñ, oss sem vid rétta heldur trú; heidri þig jord og himiniñ, hljómi lofgjord um eilífd sú.

8. O Jesú Guds Son eingétiñ! er lær-dóm sañañ kéñdir oss, ljósid og fridinn leiddir iñ, og lífsins betra vonar hnoss.

9. Frá daudans leystur dróma nú, vid Drottins hægri situr hond, aptur munt skodast af oss þú, oll þegar dæm-ir jardar lond.

10. Hjálp' oss! hjálp' oss! vor hugg-an vert! hefir þú sjálfur keypt oss dýrt, med ordi sannleiks æ þú sért, óbrygdult ljós, er fái' oss stýrt.

11. Blessa þú líf og sál' í senn, sídar arf himna lát oss fá, krýn blessun alla kristna meñ, og kynid sérhvert jordu á.

12. Svo friðinn, réttinn, sannleik, trú, sérhver vel geymi heimsins þjóð, allir þér þjóni æ og nú, eindrægni haldi skynsemd góð.

13. O! mikli Guð! vér þöckum þér, þér, mikli Guð! vér sýngjum prís, hverr svo sem þú að hátign er? hverr er, sem þú, í öllu vís?

14. Til þín, til þín vort traust er allt, um tíma' og eilífð svo sem nú; heyr þú vorn saung, bænheyr ávalt, huga vorn styrk í von og trú!

## No. 3.

Með sínu lagi.

Heiður sé Guði himnum á, og hærst lof fyrir náð sína! allt vel tilbjó hans vitskan há, verkin dásamleg skína, syndugri jörð frið senda vañ, sitt blóðið fólk æ lætur hañ, sína miskun sjá og reyna.

2. Vér lofum, dýrkum og þöckum þér, þig tilbiðjum alleina; vald þitt, Guð Faðir! eilíft er, aldrei kañ það að réna; svo er þín makt ómæliteg, algjört er allt hvað þér er í hug; vel er þeim í trú þér þéna!

3. O Jesú! Guðs eingétiñ Son, athvarf og líknin mañna! þú bættir allt vort

andar tjón, eymd vora vyrdtist kanna. Lausnari! er daudañ leidst á kross, líknsamur sért þú ollum oss, leid oss veg til lífsins sanna!

4. Heilagi Andi, hjálpin trú, huggariñ allra besti! frá heimsins sotkum forda þú, fólki, sem Jesús leysti, med sárum dauda og dapri pín. Drottiñ! vardveit þú kristni þín, sem af hjarta á þig treystir!

## No. 4.

Lagid: Upp! uppstatt í nafni Jesú!

Um Gud eg syng, því syng eg frór, sá er vor mikli Gud og Herra hár; hans heiti'er: Drottiñ, hans verk stór, himna gjorvallra'um vídd, hans veldi gár; Alvaldur vill, verold hver fær siñ stad, til verdur full, med fjørt, sem hañ qvad.

2. Hañ býdur: aptur hverfa þá, himnar vid bending' hans, sitt ekkert í; ljós er hans skrúdi; skírt kañ sjá, sképnuna', hid besta veit, ad velja því; Gud stjórna réd, stóls hans er hátign bygd, reksamri med, réttvísi'og sannleiks trygd.

3. Fullríkur eiñ auds-gnóttum af, óþverranlegum, Gud, án upphafs einn; Gud um eilífdir, gruñlaust haf, gerda, far-

sælldar, lífs, án enda, hreiñ; alvaldi Guð alheims! hverr fiñst þér jafn? hverr líkist við, dýrð þína'og dásamt nafn?

4. Um himna, fold og haf hvad er, og hefir verid, allt, Gud! þeckir þá; Gud! þiña vísdóms verka her, frá eilífd augljós var, þér æ og nú; mér ertú nær, mig vefur umsjá þín, þú verkad fær, hvild ad óhult sé mín.

5. Guds forsjá stýrir fardankig, þvi hvad fyrr edur síd, eg framgvæmt fær, hañ reynir, þeckir þig og mig, hvert sit eg eda gár, nær er hañ æ; hvert ytst hafs á, eda skaut himins stýr, hans er þér hjá, hvervetna kraptur nýr.

6. Hañ vóg allt út med vissum skamt, er vildi'hañ skipta mér, og skrádi þar, á sína bók, hve feng'eg framt, fjørs notid, þá eg eñ nú eckert var; eckert er mitt, alls eckert, Drottiñ miñ! allt er þad þitt, í og hjá mér, sem fiñn.

7. Jafnan skal nafns þíns, Drottiñ! dýrd, dásemda þiña hrós, í muñi mín! hverr má þín undur út fá skírd, ordu og fegurd þá, þeim skjært á skín; í vidum geim, allt, sem tilverda létst, hrósar um heim, Hofunds almætti mest.

8. Speg-

8. Spegill er þíñar speki skjær, hvert miñsta hálm-strá eitt; þú, lopt og lá! þér, hædir, dalir, grund, sem grær! Guds hrós þér leikid ljód, lifleg og há; þín nádar-lind, landid æ vokvar ný, fædir mannkind, fridsemd og heillum í.

9. Alvinnu nægtir nótt og dag, náqvæmri hygginn vér, af þiñi hönd; skyld' ei sú hugsan hjartalag, Herra! fridstilla mitt, vid efnin vönd; þín hönd ad míns, heill, Gud! er lífs og hlíf, fyrst vilja'án þíns, ferst einkis tittlings líf.

10. Ef Gud mitt athvarf er og skjól, ef Gud frelsari'og hlíf, vill vera miñ; lífs þo umbiltist hradfært hjól, hverki' um jord hirdi'eg par, né himiniñ; umhæliſt þá, í trausti hans vid hel, ein hans forsjá, allt gjörir til mín vel.

## No. 5.

Lagid: A þig alleina, Jesú Krist!

Og þá stjarna útbreiddañ her, augum lit fyrir mínum, upplyptir þánkiñ allur sér, o Gud! ad hástól' þínum; þín eilíf maktin aldrei þrentt, allt þetta [illegible] fékk tilreidt, og nær þér þócknast [illegible] greidt, [illegible]tt [illegible] eitt, gétur af engu lif framleidt.

2. Mikli, dýrdlegi Drottinn minn! Drottinn lifinn yfir! á þig treysti eg æ hvert sinn, allt blessar þú, sem lifir, frá augnabliki fyrsta hér, ad fékk eg líf til gæfu mér, hver stundin mín þess minning ber, ad merkt hún er, nýum velgjördum, Gud! af þér.

3. Lika sýna mér løndin, sjór, og lopts-ins hvelfíng vída, ad þinn máttur er yfr-id stór, engu þarf eg ad qvída; því ald-rei mér sú þraut fær bægt, þín bending sem ei géti lægt, og ef vild þinni þad er þægt, þér veitir hægt, sumar skapa úr vetri vægt.

4. Hver þjáníng, sem mig hittir þá, Herra! eg til þín leita; því vill og megn-ar hønd þín há, hjálp og frelsi mér veita; hvad þú ei byggir hrapa fer, hvad þú blessar er stødugt hér; æ! géf því bless-un mildur mér, þín makt ei þver, þitt vald á himnum háleitt er.

## No. 6.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor Gud.

Allt skédur, Gud! sem einn þú villt, allt verdur þér ad hlýda; veru engrar svo vald er gyldt, ad vinnist gégn þér strída;

sem fiſt feykir burt, fellir, sem laufblad burt, dára fíbldjarfa, er dirfaſt mót-ríſa þér, ſtjórn þína' ei þeckjaſt blída.

2. Voldugir! géfid Gudi dýrd, gætid þeſs: hann er nærri; vitnid þér, menn! Guds makt á jørd, mañlegri tign er hærri; hañ dapurt hreſsir þel, heyrir qvein allra vel. Eg reidi' í øllu mig, ó Drottiñ Gud! á þig, aldrei þú ert mér fjærri.

3. Allt hvad mér gagnar gleggt þú ſér, géfur nægt þeim er ſnaudur; ſvik né ofbeldi' ei bleſſa mér, bíd eg í von ó-traudur; mikli, máttugi Gud! mig þú frelſar úr naud; eg þinu ſkauti í, óhult-ur jafnan bý; þér ſé lof, þøck og heidur!

## No. 7.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Dilſn' engin fyrir þér, mig fela mega, ó Gud! ſem allar ſér, upp fyrr enn ſtíga, hugſanir hér, hjartans íllar og gódar; eymdirnar áſamt ſér, opt ſem þúngbærar mér, aumum ofbjóda.

2. Øll veit alvitſka þín, ørmæddra vinar! andvørp þeim ondin mín, upp til þín ſtynur; ſañfær mig, Gud! ſynd mig ſvo aldrei bleckí, ad hugſun, ordid

hvert, athofn og girndir bert, þú allar þeckir.

3. Fyrst girndir, gjördir, mál, og gjörvalt þeckir, skal mína syndin sál', svívyrda ecki; en med varúd, æ betri' og lastvarari, framgeng eg fyrir þér, Fadir! sem til mín sjer, í frid' ad fari.

4. Ef breadast allir mér, og vid mér stugga, ad þú mig sjálfur sjer, samt skal vel hugga, og nær mannleqt, mig heyrir eckert eyra, þú kant, víst veit eg þad, og vilt mér gæta ad, raust hjartans heyra.

## No. 8.

Lagid: Náttúran öll og edli manns.

Sál! dupti klædd, ei sönnir þér, sveyma um straum lastaña; Dómáriñ, sem kupphæd er, ailar sjer gjördir mañna, öll augum hans, eru hjartans, opin, silfun hvert sinni; oud saurug má, ei búa hjá, alskjæru Hátigninni.

2. Drottins alskygnu augum frá, engiñ kañ filsnis leita, vinds og eldinga vængjum á, þó vildi flótta þreyta; ecki, neiñ þañ, umflýa kan, engill Skaparann mæta, sem til sjó heim, og í þeim gein, ad öllu vel nam gæta.

3. Farir þú lengst, sem felur sýn, fjær enn himin-ljós skarta, og þó bólfenu yrdi þín, undirdjúps mirkrid svarta, ei stadur sá, þú flýdir frá, fjær enn hinn, sem þú nádir, Guds hátigner, sem gætir sjer, gjerla hvar finnast bádir.

4. Eilífi Gud! þig enginn hér, umflýr glæpugur madur; mun þad ervænt-íng auka mér, eg svo deyi glatadur; ónei! þín nád, ædra gaf rád, örugg svo trúin standi; fyrir þinn Son, í fullri von, fæ eg miskun bidjandi.

5. Nú flý eg því á nádir þín, naudstaddur vesæll madur, eg finn og játa afbrot mín, er fyri þér skékkadur; heims biltíngar, mig hræda' ei par, hjá þér ef blídu mæti; en hirtir þú, allt fellur nú, í grunn mannsins dramblæti.

6. Fyrr' enn uppkomu fjöll á jörd, og flódu lækir dala: ádur enn ljósin urdu gjörd, og mönnum gafst ad tala; fyrr enn andar, sætt súngu þar, sem þeim var fenginn stadur, Gud sá þad þú, þar sem ert nú, þenkir og talar, madur!

7. Uppi býr Gud med engla her, er þó hjá þrælum synda; dýrd heima undir eins hann sjer, og skuggann smáqvikinda, sem sólu hann, sjá stærstu kann, svo lítur dypt-

id valla, miñst eins hvad er, þess afdrif sjer, eins og heimsins gjervalla.

8. Blygdast þvi, glæpa vesæll vin! vef þig ei bondum syndar; aflegg hræsninnar yfirskin, augu manaleg sem blindar; meina ei ad, þann megir stad, hvar mátt einn heita finna, eilift i þér, ætid þú ber, athafna vitni þinna.

9. Endíng tímanna er oss nær, adsledjar daudans nóttin, eckert hæli lifs freckjan fær, flóttann þó reki óttinn; annnur er sá, ei fyrr'enn þá, audmjúkur vildi sanna: Guds augad er, sem gjorla sjer, gáng og athafnir manna.

## No. 9.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor Gud.

Allstadar vidverandi Gud! vér þig i ollu sjáum; á hátign þina i hverjum stad, horfum i stóru og smáu; eins lifi' og ond i hag, ollu stjórnar hvern dag; Gud! þinn i gledi' og neyd, Gud! þinn i lifi' og deyd, krapt med oss fundid fáum.

2. O dásom heill! ad ert oss hjá, ædri enn hugsast kynni; ad blídt og stridt, ástgjafir frá, allt eru speki þiñi; þú vora velferd vilt, vegsama þig er skyldt; gloggt

minnum sídar sjá, sonn nád og speki há, var stjórn þín sérhvert sinni.

3. Gef ad eg lastvar vandi vel, verk mín og hegdun ætíd; því hjartans líka hulid þel, Herra! þú vel adgætir; sú hugsan hjálpi mér, ad hlýda þér, sem ber; hér svo mér hegda þá, hugrór ad birtast má, fyrir þér þá eg mæti.

## No. 10.

Lagid: Heidrum vér Gud af hug' og sál'.

Gud! í ollu, sem eg lít ské, med undrun þína speki eg sje; hond þín ádur enn heim tilbjó, hann sástu víst frá eilífd þó; þín vitska gloggt hvern þánka sá, þann feril allt skal gánga á, afdrifin líka', er allt skal fá.

2. Allt vottar þad, ad þér ber prís, þú, sem ert furdanlega vís! alheimur fagur undra stór, allt hrópar: vitur Gud er vór! hvert strá og hofud-hár, ogn hver, ef hugleidd er, af ollu ber, veraldar ment, sem vinna fer.

3. Allt, allt til samans hrópar hátt, um Herrans speki, gædsku, mátt; eg skal því, Fadir! uppá þig, oruggur jafnan reida mig; einn þú hid besta

ávalt hjer, afskamtar best, sem líkar þér, hverjum það veitstú hentast er.

4. Drottinn! lát speki þína þá, þrótt og huggun mér ætíð ljá.; þérvístar þá um hættann veg, hverki uppgéfst né mægla eg; hvað ætti ské edur ecki um sinn, ei megnar skynja hugur minn; verði því, Fadir! vilji þinn!

## No. 11.

Með sínu lagi.

Lofið Gud! lofið hann hverr, sem kann! gjörvöll þjód, já, gjarnan heidrið hann! allir menn um allann heim, ætíð hann prísi, dýrd allsherjar Drottni þeim, dag hvern auglýsi, af því hans, ædst miskunsemi, kyni manns, kunn er í heimi, ei vors lands, innbúum gleymir, fast og traust í ást á oss. Allt hvað hræra anda kann, æ hann vegsami! allt hvað bærist heidri hann, og hátt lofi! Amen!

## No. 12.

Lagið: Jesús Kristur að Jórdan kom.

Gud! mikill ert, þig engla her, ótölulegur prísar, vegsemd og dýrd æ

votta þér, veldinu guddóms lýsa. Þú, sem býr ofar hærstu hæd, himna, sjá! þess. ber vottinn, vorsins inndæli' og skruggan skjæd, skjært sólskin, dymma, nóttin: ad mikill ertú, Drottinn!

2. Eins gódur ert, gafst englum líf, og oss, sem dupti klæddir, þinn berum svip og þína hlíf, þöckum, allt hagsæld gjæddir. Vor, sumar, haustid sýna lýd, sanna nád, þeim og medur, veturinn, frostin furdu stríd, felli-bylja storm-vedur, allt lof Guds kjærleik qvedur.

3. Fyrir dómstólinn þegar þiñ, þjódirnar náir kalla, og hristist jardar hnötturinn, háreistar borgir falla, þitt veldi' eg sje, skélf, þegi þá, þú lýstir fridinum blída, og sképnan gledst, því elsku sá, sem allt má skapad hlýda, dupti lér Drottinn lýda.

4. Hjartann ogra ógn hver þá, ístodulitla skyldi, óbrygdula fyrst er ad sjá, umhverfis þína mildi; ef jardarhnott umspeña fer, eldur med vatna flódi, mín von, mitt traust skal þó á þér, svo þrautin síst ofbjódi, Gud miskunsami'og gódi!

5. Daudiñ ei bleskrar dapur mér, ne dymmir grafar skuggar; þín gædska, sem mitt athvarf er, í allri neyd mig hugg-

ar; öruggañ mig að eilífð ber, þá að vill dauðinn fara, öruggur sje hañ, öruggt fer, á fundinn míns Dómara, míns Guðs og míns elskara.

## No. 13.

Lagið: Heiður sé Guði himnum á.

Góður er Guð í allri átt, af gæðskú verk hans ljóma; allt gleðst, sem hefir andardrátt, ást hans og vernd sam-rómar, af ást því skapa allt hann réð, ást gleður hann og blessar með, prís Guðs ástar æ skal hljóma.

2. Guð! þú bauðst, jörðin gróa réð, grænt í skrúð engið klæðir; jörð vora fylltir frjófgun með, fékkst oss vit heñar gæði, oss að hagnýta, heilsu, frið, og hagsæld gafst oss, þína við, ást og náð vort kannast qvæði.

3. Föðurlega lífs fram á skeið, frá æsku þu oss leiðir, heyrir vort qvein í hverskyns neyð, heñi með náð úrgreiðir; að Guð vor einskjær ástin er, eins í mótgángi fundum vér, reynsla sú best rannum eyðir.

4. Þú gafst oss krapt að gætum hér, gengið fram lífs á vegi; opt þó rosuðum

Veikir vér, vor Gud burtbratt oss eigi, af vegi skeikud vor samt spor, vel á-fram greiddi Fadir vor, med ást fær oss ad sér dregid.

5. Uñ oss svo leidast, Fadir! fá, fødur hønd vidur þína; þínum ei vikja fót-stig frá, fúsa þér hlýdni sýna; því þess fagnandi fáum gád, Fødur vors-þod erri' einskjær nád; oss-lát þessu aldrei týna!

6. J ró vor skundar æfi-stund, oss Drottinn vegferd greidir; úr grøfum væraun eptir blund, alla til þín heim-leidir; þá í føgnudi' og fridi vér, Fadir! um eilífd syngjum þér, lof, ástkjæri! æru og heidur.

## No. 14.

Lagid: Gled þig, Guds Sonar brúd!

Hér himnar! hefjid dýrd, ad hún sé Drottni skírd, lofid hañ í upphædum, hrósid hans makt og gædum, her hans og englar allir, æ lofi hañ gjørvallir!

2. Seig þú lof sólin kjær, og sérhver stjarnan skjær, loptid skal lof Guds frama, líka túnglid hid sama, hvad, sem er yfir og undir, allar lofi hañ stundir!

3. Veglegast vatna safn, vidfrægt Drottins nafn, forkuñar fagur-smidur,

fullgjört er hvad hañ býdur, hans nidur-
skipun halda, heimar um aldir alda.
4. Hañ losi haudrid fridt, og hafsins
djúpid vidt, eldur, hagl, údi, skrugga, of-
vidri, regn, snjór, mugga, hvad eitt Gud
heidri, prísi, hátign vors Drottins lýsi!
5. Hálsar og hán fjøll, heidri þig,
Drottiñ! øll, dalir, gras-búnar grundir,
gjaldid prís allar stundir, fuglar, dýr,
qvikfénadur, fjøldiñ, sem skrídur gladur.
6. Allt fólk um allañ heim, æ sýngi
Gudi þeim, lofgjørd, sem líf, heill greid-
ir, likn veitir, meinum eydir, fognud,
ljós, farsæld géfur, vid fodur-hønd leidt
oss hefir.
7. Allt hvad er skapad skal, med skirt
lofgjørdar tal, hans nafni heidur greida,
Herrans lof vidt útbreida, allt yfir himna
alla, og jørdina gjørvalla.
8. Lofi Gud allt hvad er, og hvad sem
var og skér! hañ allar heidri þjódir, hans
fyri son vorn bródur, Jesúm, dýrd sé hon-
um samen, sýng lof Guds kristni! Amen!

## No. 15.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín.

Vor Gud er einskjær ást og nád, æ hverr-
ar sképnu best fær gád, og eblir heill

i heimi, haň blessar hvern dag allt hvad er, oss sinum bornum nád hann tjer; og sképnu engri gleymir.

2. Fadir! oss sköpst til farsældar, flýtur af þiňar miskunar, lind allt gott; allt bjargrædi; sadning hverri og svaladryck, er sjór og jørd oss borid féck, ørlát þin gædska' oss gædir.

3. I nád þú miňist ætíd vor, af þér stjórnast vor luckn kjør, hvert sæld eda sorg oss greidir, þú ert hjá oss i allri neyd, oss, gódi Gud! i vorum deyd, fødur-hønd þin framleidir.

4. Eins og fadir áminnir þú, ódygd ad hata'en geyma trú, er dygd laun eilíf géldur, en þó vér brjótum bodord þin, borgunar-mannsins vitum pin', o Gud! ad vægd oss veldur.

5. Já, þú ert einskjær ást og nád, eblir vort saňa hjálpar-rád, øll skal því eilífd lýsa; hér birjum vér med barna-róm, i borg þiňi med engla hljóm, ást þina æ skal prísa!

## No. 16.

Med sínu lagi.

Gudi lof skal ønd mín inna, uppsvpti raust og hugur sér; síst ber ad láti'eg

linna, líku hans, makt, speki ad prísa hér; sekt gaf upp glæpa minna, guđhræddra styrkur er; hans náđ ef hirđt' eg stiña, hún krapt stiñ á mér tjer, í neyđ lét fögnuđ stiña, friđ mæddu hjarta lér; í vist himins heimkynna, hann sælu geymir mér.

2. Alvaldur ást lét róma, og endurlausn oss frambauđ hann; sem fađir alla fróma, í friđar sáttmál taka vañ; hañ firrist hefndar dóma, hirta sem fađir kann; sér lætur miskun sóma, sekum viđreisnar ann; himneskri náđ bauđ hljóma, hvar sem sinn ótta fann, hans ást umhverfis ljómar, hvern einn ráđvandann mann.

3. Blíđur Fađir án bræđi, bresti međ vorkun lítur á; eins vægja Guđs huggæđi, grandvørum, sem hans ótti' er hjá; veikt erum, veit hann, sæđi, vorri móđur, jørđ frá, mót dauđans megna æđi, miña enn vistđ strá; sem fisi sveifli um svæđi, svo lisi fyrirbrá; menn hverfa í moldar næđi, margir seint ađ því gá.

4. Drottins óumbreytt eina, um eilífđ standa mun þó náđ; þađ fá hans þjónar reyna, þeir, sem vel hafa' hans bođa gáđ, ástunda ætíđ hreina, eblíng' í vitsku' og dáđ. Komiđ! lof Guđi' ađ greina, gladdir hans prísiđ ráđ! hann børnum

likn vill beina, þó búi' í dupti smáð; bót fær þeim mildur meina, medur sæld hinnna tjáð.

5. Prís skal fagnandi færa, Fedur, Syni og Anda nú; heidrist þín hátign skjæra, á himni' og jordu, Gud! í trú; þeim var og er, sé æra, æ hljómi lofgjörd sú, af þeim er anda hræra, um eilífd gefgist þú! englanna loffsaung læra, í lífi' oss undirbú, þig sjá, þér syngja kjæra, þøck, heillum til vor snú!

## No. 17.

Lagid: Svo elskadi Gud aumann heim.

Gud! þér hrós og heidur ber, mitt hjarta lofgjörd færir þér, þú stjórnar, Herra! dögum mín, hønd var yfir mér jafnan þín.

2. Neyd þá mitt hreysi nálgadist, vid neydar-qvein' ei daufheyrdist, Guds mér aflétti gædskan þín, glatast ljet ecki' í eymdum mín.

3. Í sótt og verkjum lágt eg lá, líkna mér, Gud! kalladi' eg þá, alvaldur Fadir áleit mig, aptur minn styrkur græddi sig.

4. Þvína heipt þá hug minn skar, harm þann ángurvær Gudi' eg bar, mín svo ej hefudi hjálpadi' hann, hug minn þolgædi styrkja vann.

5. Villtur þá réttum vegi frá, vafinn mig synda neti sá, um Fodur-náð eg hrópad' hans, hans náð varð styrkur aumingjans.

6. Huggun sárþreydi hjartad mitt, því huldi Drottinn andlit sitt; hvad lengi, Gud! eg hrópa' á þig? hann yfirgaf ej veikann mig.

7. Hans miskun eñ mun hjálpa mér, Herrann trúr og líknsamur er, frá illu haň mig frelsar vel, fúst mitt til dygdar gjørir þel.

8. Raunir og neyd eg þacka þér, þá sem ástríkur sendir mér; gøfga fyrir þá gledi þig, er gjædskan þín vyrdtist sæma mig.

9. Heims fyrir lán eg þacka þér, þiñar trygdar, sem ástgjøf er; þér þacka' ad skópst oss alla í hag, er þín gædska ný sérhvern dag.

10. Fyrir þá gædsku' eg gøfga þig, ad gafst þinn Son út fyrir mig; af øllum mætti, øllum hug', og allri sál' eg prísa þig.

11. Guds verk um eilífd gøfgi' hann øll, Guds er af miskun jørdin full, þér sé vegsemdin, heidur, hros, hjálpar þú fús og líknar oss!

12. Þó sé hjá oss ad qvøldi qvein, kjæti' er ad morgni og unan hrein, þá reynslu-tíminn úti er, oss leidir hann í dýrd hjá sér.

13. Aldrei, mín sála! Gudi gleym, giald lof mildasta Fødur þeim, medást, trú, hlýdni, heidra hann, Herra nádugann tilbid þann.

## No. 18.

Lagid: Nú bid eg, Gud! þú nádir mig.

O! hvad stór gudleg gjædska er, góda manns-art sá ecki ber, hvers svo er forherdt hjarta' og géd, hana ej fann né þacka réd. Guds elsku prófa' og una vid, ætíd veri mitt skyldu mid; ej gleyma vann hans miskun mér, minnast hennar því skyldugt er.

2. Meistara hønd hver mig tilbjó? míns Guds, sem mín ej þurfti þó; hverr med láng-gædri hlífdi nád? hann, þess eg opt forsmádi rád. Hverr gaf mér

sinis hvíld og frid? hverr andans krapta rétti vid? hverr gaf mér húsund gædi' á-vallt? Guds nema hönd, sem skapti allt.

3. Lít upp, mín sál! og sjádu hert, pad sæla líf, til hvers skøpud ert, hvar þú í dýrd um eilífd sjer, einn Gud í veru, sem hann er, til ærn' og gledi áttu rétt, af mildi Guds er pad tilsett; inngángur lífs svo opnist þér, í daudan gengin Jesús er.

4. Skyldi' eg þann Gud ei heidra hér, hans gædsku ei láta skiljast mér? skál han hrópa, eg heyra ei, hann leidrétta, eg segja nei? hans vilji og ord innskrifad er, upp. í mitt hjarta, sem styrk því ljer, allramest Gudi unna ber, en náúnga likt sjálfum mér.

5. Packlæti kýs hánn þetta' af mér, pad í godgirni' eg líkist sér, hús ef eg skyldu fylli þá, fögur sjest mér hans líking á. Hans elska' ef lifir í mér gód, orfar hún mig á skyldu slód; sýst gét eg fundist saklaus hér, synd þó ei drottni ysir mér.

6. O Gud! sé føst fyrir augum mín, ætíd kjærleiksfull gædska þín; alúd dygd-anna hún orsi mér, ad mitt liferni helgist þér; í hørmúng sé hún huggun mín, hún leidi mig í sæld til þín, og endurhressi' á efstu stund, andláts gési mér værann blund.

## No. 19.

Lagid: Jesú Kristi! þig kalla' eg á.

Þú ert réttvís, alvaldi Gud! ollum sín laun ágvedur; vesæll er hverr þín heileg bod, hirdulaus yfirtredur; æ þess í tíma géf mér gá, Guds ad réttlætis dómar, qvidvænir koma, og hardir dára hitta þá, hans vidlund er forsóma.

2. En hinn, sem lastvar hlýddi þér, á himnum gledi mætir; þó dygd af engum þeckist hér, þrjótskur syndarinn kjætist; samt munn þín gædskan gloagrast þar, guddómlegt ljós í leidast, allt mirkur eydast, og kjor réttvísrar umbunar, eins; dygd sem lostum greidast.

3. Kénn þig ad elska, minn Gud! mér, og mitt líf dygdum prýda, þín skipan speki oll því er, og gledi þér ad hlýda; hjartad þá munn ei hrædast mitt, þitt helgasta réttkæti, þad qveikir kjæti, ad mér þú geymir hnossid hitt, hjá þér í dýrdar sæti.



## 2. Skøpunar-Verkid.

### No. 20.

Lagid: J dag eitt blessad barnid er.

Hef þig, minn andi! haudrid mér, bljóm birji med lofgjørda; vor Drottinn stór frá eilífd er, øll jørd og himnar ræda; já, yfir allt er Herrann hár, hann baud og guddóms skipan klár, ein tilbjó allt veranda: sól, stjørnur, himin-hnatta hjørd, hann gaf útdreift, sem fis á jørd, og sand-korn sjáar stranda.

2. Gack hátt, min saungdist! glød í fylgd, Guds engla raddar hljóma: Gud Skaparinn er gædska mild, gélli vid þúsund róma! Gud Skaparinn er eilíf ást, vid ord hans lífid streyma sást, í lík øll, sem lifa kunna. Gud er sjálf elskan, Gud vor, já, gengur eblugur hródur sá, af mergd ótaldra munna.

3. Min lofgjørd hærra lypti sér, lýsi dýrd verka hinna: Gud yfir allt æ gøfgum vér, Guds krapt má hverr einn finna; gédur, vís er vor Gud og stór, greinir

himins og jardar kór, hvad skapt er, hañ baud væri; allt stód þá prýdi' og ordu í, óendanlegum Gudi því, hans öll verk heidur færi!

## No. 21.

Lagid: Gædskurikaști græbari minn.

Hverr má, Gud! skynja hugur þig? hverr ædstum Gudi líkja sig, í anda veldi vídu? þig, Drottiñ yfir öllu einn, sem ert fullkominn, helgur, hreinn, hátt lofar heimsins smídi. Tign ædst, ást stærst, ejlíf vísust, verd ad prísast, vér því greidum, lofgjörd, þakklæti þér og heidur.

2. Þú ert og varst ejlífu frá, um aldir vera munt og sjá, ei þitt alveldi þrotna. Þú skipar, heimar skaptir stá; þú skipar, heimar undirgá, því þú einsamañ drottnar, lopt há, láð, lá, gjörtir prísa', og ajørvallt lýsa guddóms megni; Drottinn vor önd því í dupti tigni.

3. Gud! þín stærd er ómælanlig, umkríngir guddóms ljósid þig, dauðlegum ofskjært öllum; þo er þinn kraptur öllu nær, alheima', er skynsemd mælt ej fær, geym rædur þú gjörvöllum; eins smærst og stærst, allt þer vottiñ, um þig, Drottinn! er vér sjáum, í þínum verkum og fundid fáum.

4. O Guđ! hvađ værum vér án þín! vitska þín birtir undur sín, í hædum og á jördu; til heilla oss, en heidurs þér, hönd þín stjórnar og máttug ber, sképnur í skaptri ordu; eins blídt og stridt, þú á-leggur, því vorn gloggvast þeckir haginn, eins í svart-nætti og um há-daginn.

5. Vegsamid þá med helgum hljom, hátída saung og gledi-róm, hann allra Drottna Drottinn! blóm láds, skraut himins skorid þrátt; skodid hans speki, gædsku, mátt, hans guddóms veldis vottinn! skodid! skynjid! ydur gledjid og til-bidjid allra Fodur, Gud fyrir Krist vorn kjærsta Fodur.

## No. 22.

Lagid: Í dag eitt blessad barnid er.

Hátt syngid Drottni hærsta lof, hann prísa, madur! áttu; til engla tignar hátt þig hóf, sá himna skóp vidáttu; allt hvad hans veldi lif nam ljá, lofi' hann hvad sína vísu á, í fagnadar flocki einum; syng, himin! dýrd, lof syng þú jörd! syng Skaparanum þackargjörd, hvers gædsku gjörla reynum!

2. Gud! hverr má samjafn heita þér? hverr líkur nefnast skyldi? allt skapad

vottinn blídu ver, allt blessar födur-mildi. Orm og Serafim álitur, og beggja kjör þinn vísdómur, med kjærleik réd áqvarda; eg þín mannkind, heill hvílík mér! hátignar þinnar íminnd ver, já, eilíf á ad verda.

3. O Drottinn! hvílík unan góð, í alheimis hríng margbrotna, um lopt, jörd, sjó er líf og hljóð, Guds hýsir stjörn hvervetna! þrumu-gnýr, leyptur, eldíng er, allt þinnar nádar vottur mér, eg skal med hrærdum anda, eilífi Gud upphædanna! þér, allra líndin gædanna, um aldir vegsemd vanda.

## No. 23.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

GJéf mér skyn ad skírt eg prísi, Skapari minn! þitt vald og krapt, hvar med Gud, þú gódi' og vísi! gjörvallann fékkst heim vorn skapt! efl og styrk minn innra mann! ad yndis heilags njóti hann, verkin þín, mig virdstu' ad stoda, vegleg medur lotníng skoda.

2. Jörd og himin-hvolfid bláa, hærstur tilbjó kraptur þinn, í því stóra' og í því smáa, alveldis-mátt sama' eg finn, allt í fagra ordu sett, allt framgengur víst og

rétt, um allt eg má með undrun ljóða, allt sé hér bið harla góða.

3. Hvað þín fram á hverjum morgni, hátignarleg brunar sól, að ljómi, gleðji, lífgi og orni, láðs vors mirkva' og kalda ból! hvers hönd mældi heñar skeið, bríngbogið um loptin breið? að heñar slocknar ecki eldur, aldrei skérðist, hvërr því veldur.?

4. Loptið oss með lífi gæðir, lífgar vort og styrkir fjör; úr regnskúrum ofan flæðir, af þess bruñi frjossemd ör; stormaher þá herthjast, hér þitt dunar þrumukast, fold sem gagnar, fold sem hræðir, og furðu hátt, hvërr Guð sé, ræðir.

5. Hverr mið setti sjóar æði, sagði: lindir frambrjótist! lét vötn halla hafs að flæði, hvar uppsprettu náðu fyrst? jarðar holu ydrum í, elds hverr megni stjórnar því? hverr í fylsnum fjalla geymir, fagrañ málm til nota heimi?

6. Hverr með laufi skóga skrýðir, skreytir grænum blóma fold? hverr orma gleður, elur, prýðir? upp hverr lífgar dauða mold? hverr gaf sál og sansa mér, sem skynbragð á margt nú ber, og til þín má þánka snúa, þú Alvaldi'! og á þig trúa?

7. Allt þad skópstú, allt ber vottiñ, um almátt, speki'og gædsku þín; lifsins Fodur dýrka'og Drottiñ, med dygd og trú skal ǫndin mín. Já, Gud, vor Gud, víst er stór, þad vottar himin, jørd og sjór, lopt, vøtn, eldur, allt til samans, øll verøldin segi: Amen!

## No. 24.

Lagid: Kom! Skapari, heilagi Andi!

Upp! upp! allt hvad Gud hefir gjørt, høfuñd vegsamid, prísid hañ! þad miñsta'er skóp hann mjøg er stórt, mátt hans og gædsku birta kañ.

2. Þó kjæmi saman Kóngur hvørr, klæddur í skrúd med veldin há, eitt grasstrá skapad gætu'ei hér, Guds bending eiñ kañn fella þá.

3. Engla herskarinn eins hér fañ, ofveikann þeirra himin-krapt, af engu því ad aldrei kann, eitt duptkorn miñnst'ad géta skapt.

4. Æ øll vañmáttar augljós spor, hjá øllum sképnum birta sig; o! hvar má fiña ord, Gud vor! er verduglega prísi þig?

5. Hvad sæ eg sagt, nær fjølbreytt lit, fold ad umvefja blómstur skart? og allañ groda'um engi', er nýt, eins nær og fjærri þúsund-margt?

6. Hvad sæ eg sagt, nær fugla-krans, fagrann-samstilla heyri róm? ótal hljód-færa umfrám dans, audin kjætist þann vidur hljóm.

7. Hvad sæ eg sagt, umhverfis mig, nær her af qvikum sképnum sje? hvad Guds frá himni', er sýnir sig, sólin upp-runnin geislande?

8. Hvad sæ eg sagt, mér furdu sær, fagurt blikandi stjarna her, blidt sje eg hver ein brosir skjær, sem bendi upp til himins mér?

9. Hvád, samsaung anda' ef heyrdi eg, hátign míns Guds, sem vegsama? Gud er stór! tign hans guddómleg, gofg-ist og nafn! Hallelújah!

10. Undirtaki med anda kór, allar kynqvíslir veralda, Guds nafn vegsam-ist, Gud er stór, Gudi sé dýrd, Halle-lújah!

## No. 25.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Gladvær jafnan gøfgi prísi, Gud minn! þig einn ondin mín; hverr er, sem þú, sá hinn vísi? sannast rád og speki þín. O! ad mætti andi minn, í ollum þinum verkum þín, vísdóm þeckja, þecktum lýsa, þecktann hverr, sem æ má prísa!

2. Í björtum fjarska hátt upphengdi, hög þín speki sunnu-hvel, med stjarna-hnöttum haglega tengdi, hnött vorn, ljóss svo nytum vel; sól þar hángir engu á, ein þú stydur, falla' ei má, vermir, ljómar, lífgar, hressir, ljóss þíns döpur minnd þessi.

3. Ærnum þúnga, hverr svo heldur, himin-kroppa, jafnvigt í? lopt þú skópst, hverr veit hvad veldur, veröld lídur fram í því? mid hver sólu setja réd, svo vis-dómi' og dásemd med, ad ljós og birtu senda sinni, sól veröldu' og frjófgun kynni.

4. Hverr fram loptid heimti', umvef-ur, hér sem oss, allt bera má? allt af því líf, hræring hefir, hitt, sem lífs er andi hjá; dampa saman dregst þar megn, dögg í snjóst og frjóssamt regn; frjóssemd bless-un flytur heppna, fram til mín og all-ra skepna.

5. Hverr nam lopt svo laga' ad gæti, leyptur fædt og þrumu gný? vinda-strik ad fljótt umfeti, fuglinn léttfær sveymi' í því? ad þad beri' ad eyrum hljóm, ad til dýrdar þér vorn róm, lífgi þad og fleyti sinnum, siskum hægt í afgrunns kynnum?

6. Hverr vann svo ad hátt uppgnæfi, hesja jörd úr djúpum sjó? vötn skamtadi

hverr í bæsi, henni svo ad yrdi frjó? hverr votn þekrr? hverr þau nam hepta, qveikt þá velta fram? hafs vid oldur háfar segir: híngad ærist, lengra eigi?

7. Grundir hverr í grasi vefur, grædde skóg' á eydi-lód? korns og víns hverr gnóttir géfur, græna' um dali fjøllum hlód? marmara hverr og málma fjøld, midt í jardar idur køld, lagdi? eldum gjár hverr grefur? gjørvallt skrauti hverr umvefur?

8. Gud! þín vitska bjargar, blessar, hýtir nægtum, prýdi lér, stydur, verndar, hýrgar, hressir, heimi líf og farsæld tjer. Guds hátign eg gladur sýng, og guddómis vottinn allt um kríng; Guds minn andi laungum lýsi, og lofi spekí, þacki, prísi.

## No. 26.

Lagid: Svo elskadi Gud aumann heim.

Frá hreysi því, sem eg bý í, augum eg til þíns hástóls sný, o þú ósýnilegi! hvad stór þú ert, þad miklast mér, margføld því alheims dásemd er; allt verdur er þú segir.

2. Vid bod þitt heimur hverr upprís, hvad ertú gódur, máttkur, vís!

sonn orda sú því lýsir, órøskud, hverrt áfram í, allt sveymar, sem fyrst gafstú því, allt hátign helga prísi!

3. Gud! hverr kann skarska furdu geim, fá mælt og takmørk sjed um heim, hvar ótal hnettir sveyma? vanmegnt hyggju manns ad slær, megin-dýptir ad horfa' í þær, og ómælandi geima.

4. O Gud! hvar birja? hvar þrot fá? hvert þíns alveldis takmørk ná? ord, mæling, þánka þrýtur; þrotlausann undra þann geim má, þar sólir sólum hærra stá, ei veit hvar enda hlýtur.

5. Ohecktir hnettir útleidast, ótal þúsundum fjøl byggjast, ótal alveldis sæti, þau verda sérhver þá fyri þig, þér, mikli Gud! øll hnegja sig, þér audmjúk þjóna ætíd.

6. Þér hnegir allt hvad þenkja kann, vid þig øll fagnar náttúran; þér afgrunns hylur hlýdir,; þín bending lægir bylja þrá, bifast grundvøllur heimsins má, og bresta nær þú býdur.

7. Sjá, Guds tign játa: gløggt eg sinn, gjørvallann anda vanmátt minn; alveldis hønd eg eygi, einn sem verk hefir algjørt sitt, í ordu, tíma' og stad féck hitt, hverju, sem haga megi.

8. Hond þin fullkomleik haggvæmañ, hverri skepnu medskapa vañ, ætla fjør, edlis krapta; allt vard ad þvi, sem vera skal; visdóms hér sjest hid mikla val, ædsta feck ordn skapta.

9. O! guddóms verka undrin há! o túngur! sem ei telja má, ein er ydart lofqvædi, Algædskan; prís svo syngur sinn, sérhverr lifs-kraptur: Skaparinn, er einskiær elska'og gædi!



## 3. Guds Forsjón.

No. 27.

Lagid: O Drottinn allsvaldandi!

Lofid Drottiñ lifanda, ljúfur, sterkur og vís sem er! kyn honum keypt til handa, komum! med saung hañ prísum vér! hverr mun jafn honum vera, heilagt nafn veldis bera? allt lifs safn, æ dýrki hann Herra!

2. Lofid Drottiñ lifanda, er lét oss skína dásemd á, býr oss heilsu til handa, og hvad, sem farsæld ebla má. Eñ þótt neyd, á oss strídi, old þó deyd, fyrir qvídi, Herrans greid, hjástod verndar lýdi.

3. Lofid Drottinn lifanda, ljúf drýpur blessan himnum af, hjá oss vid storf réd standa, og styrk i allri mædu gaf. Augu manns, øll sem kjósa, æ sjá hans, forsjon ljósa, borg og lands byadum á sér hrosa.

4. Lofid Drottinn lifanda, sem leidir, stýrir, hagar til, og lætur einnig standa, af illu gott oss þrátt i vil. Himna kór, haudrin svara: hátign stór, er Skapara; gjørvallt fór, Guds lof ej ad spara.

5. Lofid Drottinn lifanda, lád-byggendur med eitt samtak! hans lofgjørd himnar vanda, hañ þyggur og vort auma qvak. Gud vor er, Gud alvaldi; gøfgum vér, hañ um aldir; hvad lífs fer, honum vegsemd gjaldi.

## No. 28.

Lagid: Rís upp, mín sál! og bregd nú blundi.

O! þó eg hefdi þúsund munna, þig ad vegsama, Drottiñ miñ! mín veika lofgjørd mund' ej kunna, mikla nóg fodur kjærleik þiñ, af þvi þín medferd øll á mér, undrunarfull og dásøm er.

2. Þó fengi raust mín fagur-rómud, flogid svo vídt, sem alheims-ból; og lypt sér upp minn lofsaungs-hljómur, léttfær

## No. 130.

Lagid: Adams barn! synd þín svo var stór.

Vér bidjum þig, o Jesú Krist! í vor hjortu vel innrætist, þín kroptug kénnìng hreina; vér játum synd og veikleik vorn, viljum þó gjarnan vera þín born, og þócknast þér alleina. Send oss nú náð og sanna ást, svo hjortun megi uppfyllast, med trú og kjærleik klárum, lastvarir svo ad lifum hér, líka deyum ad erfum vér, frid med Frelsara vorum.

## No. 131.

Lagid: A Gud alleina.

O Gud alvaldi! oll nafn og vald þitt hátt, um allar aldir, audmjúkt vegsamar þrátt, anda fjold æsta, um eilífd svo sem nú, eins fyrir smærsta, umhyggja þín er trú, og því allra stærsta, er skópst og gjordir þú.

2. Ljósid framleiddi, og líf þitt guddóms ord, ord mirkrum eyddi, ord skóp himin og jord; ord þitt upplýsir, alla, sem trúa þér, veittú þad vísi, á veg farsældar mér, hlýdinn hér svo prísi, Herra Gud! þig sem ber.

3. Einn ædsti kraptur, þinn ollu helður vid, er ádur skaptir, sitt ágvardada mid, vís, helgur, vægur, Vera fullkomin mest, án enda frægur, ertú, þér líkt ei sjest, einn Gud ollu nægur, sem ollu stjórnar best.

4. Styrk mig ad standa, stigunum Jesú á, og verk mín vanda, verdur eg gjörist þá, ímind ad bera, o Drottinn! þína hér; lát lofgjörd vera, lífid mitt gjörvallt þér, uns þig, ædsti Herra! um eilífd prísa fer.

## No. 132.

Lagid: Í dag eitt blessad barnid er.

Vil eg, minn Gud! á valdid þitt, vilsjast og ráð mitt gefa; en, æ! þú sjer vanmegnid mitt, mátt þinn eg síst þó efa; hjálpa þú mér og helga best, mitt hjarta, rot ad nái ei fest, synd né til glæpa ginni, veikur lítt standast vid eg má, vinnur hún einatt sigur á, birjadri betrun minni.

2. Þú, Jesú! kénndir, qvaldist, dóst, qvittadir brotin manna; ad þú fyrir mig leidst er ljóst, laungum þad veki sanna, ferlt þínum ad fylgja hér, framferdi þitt sé regla mér, eg svo lífs skeid útendi, med heill og nái marki því, mín farsæld sem er fólgin í, og hnoss mér verdi í hendi.

3. Æ! þángad, sem ad engin tár, augun væta, mitt sisi, og eptirlángan ætíd stár, o! þau fridar heimkynni! hvar æ er gledin æfinlig, eg fæ þar grant ad skoda þig, Gud! hvers eg gjarnan leita; ó þañ frábæra frelsis dag! fullsælu til þá rauna hag, á sídan um skal breyta.

## No. 133.

Lagid: O Drottinn allsvaldandi!

Gud minn! hvers gjædskn stóra, gjördum øllum líta má, heimar og himin-kórar, henni lof um eilífd tjá; hvad sem er, og eg kénni, eda mér, hug' um renni, lýsir þér, lifandi Gud! og henni.

2. J sañleiks ordi mæta, eg veit sælu heitna mér, trúlega'ef gjori gæta, Gud! þíns vilja' og hlýdnast þér; kunni'eg fá, kórónu og viña, kjør þau há, allt er miña, ædst hvad má, í verøldu finna.

3 Hjálpa mér, Herra'! ad gánga, sem heilagt ord þitt kénna vann, af réttri gøtu'á ránga, ráfa'eg añars villtur kañ; en eg þér, ætíd treysti, opt mig þér, nád þín reisti, mót syndum mér, sendi styrk og hreysti.

4 Synda-lyst allri enda, adstod, Drottinn! veittu mér; þiñ Anda lát mig leida, svo lifi'eg grandvar eins og ber, dygdar á, adal-vegi, eg ad sjá, ljós þitt megi, og von þér hjá, vegsemdar leks egl.
5 Mér kann máské ad vera, mín endalyktin barla nær, veit mér þá huggun, Herra! hel-stundin gèf ad komi vær, daudi miñ, verdi vægur, vilji þinn, sé mér þægur, leid mig inn, lífs í farsæld nægu.

## No. 134.

Lagid: Uppá fjallid Jesús vendi.

Ad þig, Jesú Krist'! eg kalla, krapt mér auka þig eg bid. þú mér hjálpar æfi alla, ef eg treysti held þig vid, Jesú! létt mér láttu falla, ad læra helgañ dygda sid.
2. Eg svo hlýdi ætíd þínum, elsku bodum, Herra miñ! votti trú í verkum mínum, vandlega reki feril þinn, þinni raust med sañleik sínum, si-eldt gégni varfæriñ.
3. Fullkomnun, sem fyrir mig lagdir, framt ástunda gèf þú mér, þá ad elska sem þú sagdir; samt af alhug' varast þér, ad fleka neinn med følsku bragdi fyrst ad brædur erum vér.
4 Veit, ad þad, sem heimur heldur, heil, er dragi mig frá þér, þad sem fyrir

gott hann géldur, giarna frett og van-
heck er, en þad sælu ædstu veldur, ef vér, Drottinn! hlýdnumst þér.

5. Þá skal trú mín, þýdi Herra! þeg-
ann avøxt bera sinn, Drottins ætíd dýrdin vera, dug eg krapt er ebldi minn, fasta vern skal fyrirbera, freistar mín ef heimurinn.

6. Heyrir þú mitt hróp, eg treysti, Herra! þér, og stendst eg þá, þó mín synd-
ir þrávallt freisti, þú mér aldrei víkur frá, en mér sendir sanna hreysti, sigri frægum loksins ná.

## No. 135.

Lagid: Jesús Kristur á krossi var.

Fadir ljósanna! lát þú mér, lýsa jafnan í verold hér, ljos þinna lífsins orda. Eg fel mig, Drottinn! einum þér, illri van-
trú med forda!

## No. 136.

Lagid: Himna rós, leid og ljós.

O! þú hár, Herra klár! hverr æ til varst, ert og verdur, allt vel gierd-
ir, alvís, rædur geym, himna og heim, hverju' um sitt mid, géfur allt, gott á-
valt, Gud! eg þig bid:

2. Géf þú mér, heilsu hér, hugskot upplýst, við þiñ ótta, voldugi Drottiñ! vant sé, heill er það, unn mér að, orð mín vandi; þar til mér, hjálpi hér, helgur Andi!

3. Að gjöra rétt, lát mér létt, og ljúfast falla, í hverju sinni, hvað sem vinn eg, hér með, verki því veit mér í, viðgáng hljóta, ødrum hér, eins og mér, allt til bóta.

4. Kjæta géð, kjærleik með, kénn mér hvern við, sem míns Guðs vild, og minni skyldu' ei mót er; henni frá, fjandskaps þrá, sæli engin, fram svo eg, frjáls minn veg, fái gengið.

5. Ségnum neyð, lífs þó leið, liggi, Guð! mín, ei lát rýla, heldur hvíla hug við, von og traust, vafalaust, velt og það mér, blindi' ei sé, en brúkað sé, best til lofs þér.

6. Þegar hrjá, hel mig á, Herra! géf mér, sætann blund, við síðstu stund, en sé mín, í føðurs hønd, falin ønd, og fari glød þá, upp til þín, er þær mín, eilíf sæld hjá.

## No. 137.

Með sínu lagi.

Herra Guð í himnaríki, hann oss siñ vilja kéñdi, er hann ofan á jarðríki, oss sín boðorð sendi.

2. Fyrsta boðorð einkum átt, af öllum hug'að merkja: Hjágudi'enga þú hafa mátt, hann einn skalt elska'og dýrka.

3. Annað: m: nństú með auðmjúk bót, ætíð með Guðs nafn fara, og hañ biðja af hjartans rót, heiðra og þackir gjøra.

4. Þriðja hans boð hugleiða skalt: hvíldardaginn að helga; Guðs orð heyr þú og gjarnan haldt; girnd heimsins skalt ei fylgja.

5. Fjórða: heiðra með fullri ást, föður og þína móður; við yfirmenn skaltú aldrei fjást, óhlýðiñ þver né reið ur.

6. Fimta: ei slá með heipt í hel, hold manna skalt ei meiða; heldur forða og frelsa vel, frá voða hvern mañ leiða.

7. Sjötta: við hór þig vara skalt, vilja holdsins ei gjøra; hjúskap eða hreinlífi haldt; hóf lát þér þeckast vera.

8. Sjounda: einkis áttú fé, okra, stela né ræna; heldur styrkja að haldið fé, hjálpa, géfa og lána.

9. Attunda boð: ei mæla mátt, meinvitni, róg né lýgi, náúnga þiñ þú affaka átt, að heiðri halda megi.

10. Níunda: girnast ecki átt, añara hús með flærðum; heldur styrkja af hug og mátt, að haldist eign þeirra'í værðum

11. Tíunda: hreinn í hug vert þú, hans qvinnu girnstú aldrei; heldur óska: ad ást og trú, vid egiñ mañ siñ haldi.

12. Gud Fadir, Son og Andi hreiñ, oss vyrdist náð að senda, að þessi boð hans hverr og eiñ, haldi til lífsins enda.

## 2. Ydran, Trú og Syndafyrirgjefning.

### No. 138.

Med sinu lagi.

Til þín, heilagi Herra Gud! hef'eg lypt sálu miñi, af hug og hjarta' í hverri neyð, hjástoð treystandi þiñi; láttú mig aldrei líða smán, ólucku, brixl né sálartjón, svo fjandmenn ei fagna kunni.

2. Ósmánaðir verda allir þeir, eptir þér hverja lángar, en svivyrdast munu meir og meir, svo margir, sem afvegá gánga, og hafna þiñi hjálp og náð, en hyllast lesti' og skémdar ráð, og elska' ei utan hið ránga.

3. Voldugi Herra! vísa mér, á veg og götu þína, við sannleik þinn mér hald þú

hér, hyggju fáráða mína, með vís-dóms anda uppfylltu, og orði þínu blessuðu, því á þig trúi'eg alleina.

4. Minnstú á þína miklu náð, og miskun þúsundfalda, og það himneska hjálpar-ráð, sem hugðir fyrir aldir alda; fyrir gjæðsku þína minnstú mín, og mér þitt foðurlegt hjarta sýn; hreinni trú lát mig halda.

5. Minn úngdóms brest og afbrot leið, álít ei, Herra kjæri! þenktú heldur á þinn eid, og óbrygðanlegt særi; o Herra Guð! af hjarta' eg bið, harmþrúngnum þú mér veitir lið, svo sem eg saklaus væri.

6. Godur og réttvís Guð vor er, sem gjarna meðtekur alla, þá, sem að lífs braut leita sér, og lætur þá til sín kalla, hug-hreystir skélfda'eg hjálpar við, svo hafi þeir gledi'og andar frið, og ei megi frá honum falla.

7. Orð Guðs og vegir allir hans, eru miskun og sannleiki, náðar brunnur og næríng manns, náqvæmust, hvað sem veikir, þá, sem hug og hjarta mest, hafa á hans orði fest, af trúnni svo aldrei skeiki.

8. Náðugi Guð! fyrir nafnið þitt, og nægð miskunar þinnar, géf að mín synd sé klár og qvitt, kénni'eg daglega hennar,

hún særir bædi sál'og líf, nema sendir þú mér styrk og hlíf, samvitskan svo frid megi finna.

9. Hverr, sem óttast og elskar Gud, skal ellifa miskun hljóta, Gud kénnir honum sín heilog bod, og lætur ei blessun þrjóta; afqvæmi hans mun audlegd fá, og blómgast allvel jördu á; gudhræddir nádar njóta.

10. Upp til Drottins eg ávalt brá, augunum vonar minnar, því ad einúngis honum hjá, huggun trúi'eg ad finna; synda fjötur af fótum mér, færa mun hann til dýrdar sér, svo megi'eg hans krapt medkénna.

11. Dýrd Gudi Fodur og Syni sé, súngin um aldir alda, eins sem hún var ad upphafe, ædsta lof skulum gjalda, heilögum Anda med hug'og raust, hljóti hann lofgjörd endalaust, fyrir blessun margfalda.

## No. 139.

Med sínu lagi.

Sælir eru, þeim sjálfur Gud, syndir af nád tilgéfur, og hverra brot og illverk med, afplánad Jesús hefir. Sæll er sá mann, þeim Gud þess ann, um lost engann átelur, hverr frá synd snýr, hatar, umflýr, Herrans miskun sig felur.

2. Svo lengi, sem mig samvitskan, syndir lét ecki játa, mann-dád og heill eg minka fann, mátti'eg þvi jafnan gráta; um daga og nátt, eg fann þinn mátt, ofþúngann mannkind aumri, megnid mitt þá, mér dróst svo frá, sem allt þornar á sumri.

3. Þvi játa eg þér øll mín brot, án fegurdar og varnar, hyl ei ad syndgast hef þér mót, holds vild fylgjandi gjarna. Sagdi'eg med mér: minn Gud! vil þér, mína glæpi medkénna, aflausn og sátt, af þér féck brádt, allra misgjørda minna.

4. Um þá qvittun á réttri tíd, allir í trú þig bidja; hvenær sem kémur hørmung strid, hér fyrir vilt þá stydja. Þú ert mitt skjól, í allri qvøl, vid háska vilt mér hlífa; vardveit þú mig, svo vitt'eg þig, fyrir vernd og nád ad lofa.

4. Þú hétst vitsku ad veita mér, velfæra leid ad boda; forsjá vera og fylgd mín hér, forda vid øllum voda; lid veit þvi mér, svo læra hér, lifa og þér ad hlýda, ad himnum á, mér audnist fá, þitt auglit skoda blída.

6. Illfúsir rata eymd og tjón, ókjør þúng og hefnd marga, hverjir á Drottins hafa von, hans miskun vill þeim bjarga,

af því glediist, í Gudi mest, af náð og trú réttlátir; hverjir af hug, hans ræckid bod, hrósid Guds adsiod kátir.

7. Dýrd Gudi Fødur og Syni sé, súngin og heilogum Anda, eins sem hún var ad upphafe, oss veiti hann náð ad standa, vel á hans veg, en varast mjøg ad synd verdi' sídar framin; Gud géfi þad, hans holdum náð, sýngjum því allir: Amen!

## No. 140.

Lagid: Konúng Davíd, sem kénndi.

Drottinn! lát mig ei dyljast, djarflega syndir vid, þo hér um stund megi hyljast; Herra trúr! þess eg bid: nær heimi fer eg frá, ørvænting ei mér grandi, ord þitt og sannleiks Andi, hjarta mitt huggi þá.

## No. 141.

Laid: Rís upp, mín sál! og bregd nú blundi.

Gud! med qveinandi'og kløckum hjørtum, krjúpum vér nidur jørdu á, um vorra sálna ángist qvørtum, unn oss á ný þinn kjærleik sjá, aflát og miskun oss því tjá, ofmjøg løgmáli víknum frá.

2. Svo ástúdlega' í ordi þínu, oss þú dygdina kénnir hér, en kallar menn frá

lasta línu, laun svo dygdanna fáum vér; en bodord geymdi'eg illa þín, æ! fyrirgéf vangætslu mín'!

3. Greida hvad skyldum gjædsku þinñ, gáleysi vort svo litils mat, osś loddi jafnan synd í sinni, svo dárinn opt osś lockad gat; ángradir sinnum, o Gud! vér, opt hofum syndgad móti þér.

4. O Drottinn! fyrir augsjón þinni, undverdt stendur hvad gjørum vær, þú, rád vors hjarta, þánka og sinni, þeckir og skodar sjær og nær; ef þina nád ei þecktum vér, þá ró og von oll topud er.

5. En, hversu blídt er ord þitt kjæra, ydrandi sálum, Jesú minn! alla mædda vilt endurnæra, ords blessar kéníng styrkur þinn; fridar upphaf þín ástin er, osś forsmeck hinna-gledi ljer.

6. Þá von og gledi' í voru hjarta, verka og styrk, minñ Drottiñ! þú, ad feta Jesú feril bjarta, fylgja hans kéníng hjálpa nú; þá má hverr vita'og þreifa á, ad þér sé nádin einum hjá.

## No. 142.

Med sinu lagi.

Af djúpri hrygd ákalla'eg þig, o Gud! hlýd roddu minni; þín nádug eyru

opni sig, ad eg bænheyrast kynni; ef syndir og athæfi íllt, álita og tilreikna vill, hverr stendst fyrir hegníng' þinni?

2. Ast og náð veldur ein hjá þér, ad þú synd qvittar mína, ei gyldir þar hvad gjörum vér, góðverk þó kynnum sýna, hjá þér enginn sér hrósa kann, hræðast verdur því sérhverr mann, og miskun þiggja þína.

3. A Gud eg einast vona vil, verdleik mínum fráfnúa; mitt hjarta Gud ad hallast skal, hans náð og gæðsku trúa; hvad heilög ord hans hétu mér, heill mín og blessan þad eflaust er, ad þeirri von vil eg búa.

4. Þó mörg og stór sé mannleg synd, miklu stærri er nádin, endalaus er Guds hjálpar-hönd, hversu stór, sem er neydin, hann vill í líkn afleysa vel, lýd, sem vorandi vottar þel, honum tjer hlýdnis eidin.

5. Födur, Syni og Anda sé, ædst dýrd um jörd og himin! eins sem hún var ad upphafe, án enda verdi framin; kénn oss ad halda kristinn sid, qvittast og skilja syndir vid, sá þad vill sýngi: Amen!

## No. 143.

Lagid: Mitt hjarta hvar til hriggist þú?

Allt þad eg hefi ílla gjört, allt, Jesú! bæta, kominn ert, um allt því

eg qvittur er, allt mitt líf skal þjóna þér, þar til, bið eg, hjálpa þú mér!

## No. 144.

Lagið: Guðs Son kallar: komið til mín!

Hér einnum braut eg móti mest, minn Guð! hjartað mitt sjer þú best, og alla athøfn ránga; bølvun þúnga, sem boða ser, bið eg þín miskun líkni mér, hlífi við straffi stránga.

2. Bænar-qvak mitt og andvarp øll, eru þér kunn, mín tára føll, allt eins þér eru' ódulin; æ! hvað lengi mig ángur sker; o Guð! hvað lengi ertú mér, samvitsku-hrelldum hulinn?

3. Allt ei svo mín afbrot ljót, að refsíng komi þeim á mót, eptir stærð illsku minnar; eg flý á þínar náðir nú, náðugi Guð! mitt hjarta þú, huggun og frið lát finna.

4. Vísa mér aptur veg þinn á, vel innræt mér þinn ótta hjá, að heilug boð þín haldi; géf eg æ betur þóknist þér, þér, minn Drottinn! hvers þjón eg er, heiður og hlýðni gjaldi.

5. O Herra Guð, mín hlífð! eg bið, hjálp lát mig ætíð kannast við, og miskun

þacka þína, að eñ villt gêfa afbrot qvitt, álíta bænar hrópið mitt, ond hrellda añ-ast mína.

## No. 145.

Lagið: Konúng Davíð, sem kénndi.

Minn Guð! eg má það játa: mikil er syndin mín, þó er í allañ máta, eñ meiri náðin þín; öll mín von á þér stráx, géf þú eg glatist eigi; géf að þig lofa megi, hér og um eilíf ár.

## No. 146.

Lagið: Aví! aví! mig aumann mann.

Heyr mín hljóð, himna Guð! hjartað mitt, hrópar ódt, af harmi módt, á hjálp=ráð þitt! við brot og syndir brjóst gjör qvitt, svo barni þínu verði friðt, fyrir Herrañ Jesúm :,: hrelling stytt :,:

2. Neyðin mín, og náðin þín, nú mig knýr, að biðja þig, þú bænheyr mig, géf blessun hýr! ei tapast neiñ, er til þín flýr, með trú og ángri, Faðir dýr! mér vyrðist ecki :,: von sú rýr :,:

3. O miñ Guð! o miñ Guð! eg þig bið, ángrið skér, uñ þú mér, andar frið; eg sæ ei staðist freistni við, Faðir góður! veittú lið; heyr þú barnsins :,: qvein og kllð :,:

4. Hugañ synd, brellir blind, Herra miñ! eg hrædist neyd, daprañ deyd, og domiñ þiñ; bót og lífn mér, Fadir! finn, í freistni enga leid mig inn, heldur frelsa :,: þjóninn þinn :,:

5. Leid þú mig, svo lofi'eg þig, í lífi hér, af hjartans grunn', med huga'og muñ', sem hæfir og ber; daudur engiñ Drottiñ þér, dýrd í þessum heimi tjer, heldur sá, sem :,: lif þú ljer :,:

6 Veika trú, vidrétt þú, og veg miñ greid; eg flý til þín, forda pín', fári' og neyd; géf mér, Herra! gódañ deyd, í gledi himna sídan leid, nær linnir þetta :,: lífsins skeid! :,:

## No. 147.

Lagid: Hærsti Gud! Herra mildi.

Vaknid upp, kristnir allir! og sjáid syndum vid! af hjartans rót ákallid, eilífañ Fodur Gud! hans svo ei hegníng mætum, hverfi oss nád hans frá; utan syndum afflátum, ydrumst og lifnad bætum, vesælir verdum þá.

2. Rádleggja ydur látid, løstu ad skilja vid, af hreiñi ydrun grátid, ill verk og vondañ sid; heilagri umbót heitid, hyll-

ist Gud hér í frá, mest ad hans ordi leitid, eptir því gjarnan breytid; hann vill oss vera hjá.

3. Heill og nád hann oss géfur, hlýdna ef fær oss sjed, í eilíft líf oss uppbefur, ollum Guds bornum med; því er skyldt til vor tækjum, trygd Guds og miskun hans, þá nád aldrei órækjum, eptir henni helzt sækjum, fetum spor Frelsarans.

4. Jesúm Krist Son sinn blída, sendi Gud ollum oss; lét hann fyrir oss lída, last, heipt og qvol á kross, svo nád oss ollum skyldist, sitt líf í dauda gaf, fyrir oss auma píndist, án þess mannkyn allt týndist; hann hjálpi' oss eymdum af.

5. Allt gott svo odlast megid, ákallid Jesúm Krist, hans nád þér erfa egid, eptir veraldar vist; lánga mædu hér lidid, leitid því Drottni ad, ornggar ætíd strídid, ollum hans vilja hlýdid; Guds nád oss géfi þad!

## No. 148.

Lagid: Sá frjáls vid legmál fæddur er.

Syndugi madur! sjá ad þér, sál þín svo hólpin verdi; eilíft líf byrjar hverr sá þér, hreina ydrun sem gjordi.

2. Hvar sú hin hreina ydran er, er þar og qvittan synda, en sú qvittan hún ablar sér, elsku Guds til mannkinda.

3. Því fá þeir allir eilíft líf, sem yfirbót synda vinna, en andar tjón og eymda kíf, ydrunarlausir finna.

4. Drottinn vor Jesús dó á kross, ad deyja syndin mætti, látum því ecki lifa' í oss, lesti med vondum hætti.

5. Géf mér, Herra! í hjartad mitt, hreinann ydrunar anda, svo ad mín sál' af syndum qvitt, syngi þér lof án enda.

## No. 149.

Lagid: *Má eg ólucku' ei móti stá.*

Géf þú oss. Herra! heims um bríd, heja gott stríd, og trú heilagri halda; sannvitskan hrein þar sé vid fest, sem kunni best, sigursæld vorri valda, svo born þín ein, hér hjarta hrein, megi þig sá, í sælu sjá, og lofa' um aldir alda.

## No. 150.

Lagid: *Davdans þúngu kraminn qvel.*

Eg er breiskur, misgjord mér, mildur Gud þó fyrirgéfur, sú umþenking þróttinn ljer, þegar otti hugann vefur;

nú þarf framar enginn efast, aðstoð Guðs mun breiskum gefast.

2. Sannleiks ljós hans orði í, ei formirkvast, heilla nýtur, hverr, sem orði hlýðir því, hjálp og krapt til dygða hlýtur; nú þarf framar enginn efast, aðstoð Guðs mun breiskum gefast

3. Mildi Faðir! mikli Guð! mér æ syndin leið skal vera; jeg vil heyra Jesú boð, jeg vil trúr hans okið bera; Herra! styrk mitt hjartað veika, hvenær sem í efa reikar.

## No. 151.

Lagið: O J dir minn! eg þrællinn þinn.

O minn Jesú! mér inngéf þú, andlegt ljós trúarinnar; lýsi það mér, svo lærr'eg gjørr, leið sáluhjálpar minnar, svo eilíft líf, eptir heims kíf, eg mætti fá að reyna; lof sé, Guð! þér, þú ljentir mér, linnið og trúna hreina.

---

# 3. Elska og Traust til Guðs.

## No. 152.

Lagið: Um dauðann gef þú, Drottinn! mér.

Hvað illt og bágt, sem mætir mér, minn von til Guðs sig hefur, minn sem að

Fadir mildur er, maña hjálp oll þá tekur, og einka revnast vinir verst, veita ovinir hatur mest, Gud mig ei yfirgéfur.

2. Þó athøfn hesta megi mín, manna álasið bída, Gud! allt er bert fyrir augum þín, eg vil þolgodur líða; þú sier míns hjarta hulda ráð, ef halda mætti'eg þinni náð, þá engu þarf ad qvída.

3. Þó sorg og ánaud sífeldlig, samferdist lífsins dogum; eg gladur er, því, Gud! veit þig, gloggt sjá hvad mínum hogum, er fyrir bestu, mædu med, mitt þú reynir og venur géd, í þínum ad þreya'álogum.

4. Þo samtok gjørdu himin, haf, og handur mér til anga, hættum stæði'eg umspeñtur af, og ógn hels í bili sama, en heimur allur hvirfi mér, Herra Gud! samt eg treysti þér, óttast fár eckért framar.

5. Þú leidir mig um daudans dal, dásamri fødurhendi, hún miñ æ vera skjøldur skal, eg skelfist ei hvar lendi; þrái himin, þó þreyi hér, þú svo kórónu dýrdar mér, í ædstu gledi' afhendir.

## No. 153.

Lagid: Mitt hjarta! hvar til hryggist þú.

O! hvad stór sæla' og yndislig, er mér jafnan ad mega'a þig, minn Gud!

traust setja mitt; allur vidlifnar andi minn, er eg ihuga kjærleika þinn.

2. Alls þurfa mig eg aumañ fañ, adstoda mig þín mildiñ vañ, ad efla mín eginn nót, mér, o Gud! þín gædsku' atlot, gafu stork vid kraptanna þrot.

3. Hversu ætti þá iñdælt mér, ætíd vera ad treysta þér, Gud! mátt'gur, gódur, vís, sem veitst þorf mína'og vilt mér best, veitir allt til hagsælda mest.

4. Jñræt þá djúpt þad edli' í mér, einnm fyrir mér trúi'eg þér, eilifi ásivin miñ! fyrir mér í sérhvert siñ, sjái, Drottinn! vísdómur þinn.

5. Já, þú, Fadir! sem alvís ert, allt fær lángt betur vid mig gjort, enn oska'eg edur skil; gégn og hlýdiñ gjarna' eg vil, gánga fram eins og segir þú til.

6. Astríkur Fadir ertú miñ, almátt, gædsku og vísdom þiñ, allt brúkar oss til góds; mitt einka traust í allri neyd, og athvarf skaltú' í lifi og deyd.

## No. 154.

Lagid: Gef þinni Kristni gódann frid.

Hvad sefa lífsins harma kann? hvad þañ syndugu stoda, kjáða, hrellda og

mæðda mann, mót dauðans ebla voða?
vér það gætnir viljum skoða!

2. O! hvað skyldi oss æðra nú, á himni' eða jörðu géfast, enn vel grundvöllud vissa sú, við hverja mein öll sefast; Guds um nað þarf ei að efast?

3. Þessi vissa af Gudi gjör, er grundvöllur trúar þinnar, hvert sem þú bíður feigð eða fjör, feginn skal þig til minna; hún ein allt kann yfirvinna.

4. Hafir þú Gudi elsku á, einlæga, vissa, heita, hans þecking' girnist helsri ná, hans velþócknunar leitar; hann' þá ei um náð þér neitar.

5. Leitist þú við, sem mest að mátt með öllu hugar-fari, að líkjast Gudi' á allann hátt, æ verda fullkomnari, gódur, vitur, Gudi líkari.

6. Þetta allt er þér vottur víss, að vísa nað hans egir; en öll skinhelgin útvortis, enga þér huggun segir; varast hún þig vjela megi!

7. Ástunda, víss að æ þú sért, um Guds náð hverju sinni, lát þá vidleitnis leynt og bert, lifa í sálu þinni; ást hans ertú æ í minni.

8. Á gledi stund, sé yndi þitt, að náð Guds megir halda; sú von í öllum sorg-

um midt, sælu-ümbunar gjalda, hér og sídar víst mun valda.

9. Og þegar daudans ablt mót, áttú loks strid ad þeja, hversu líf-kroptug þols er bót, brigdarlaust kunna'ad segja: viss um Guds nád vil eg deya!

## No. 155.

Lagid: Gled þig, Guds Sonar brúd!

Hví skal mér veiklast von! veit eg Guds mildi Son, er med oss allar stundir, ockar senn verda fundir; oskélsd mín augu mæna, á hann í qvaki bæna.

2. Um heimsins gledi og glis, gedjast mér eins og fis; skjott missi'eg skémtun slíka; skimp met eg hans vidlíka; þad má létt hysmi heita, hjá því eg eptirleita.

3. Leggi Gud ok mig á, og harda rauna þrá; o! eg vil eckért kjæra; eins má þad heill mér færa; skal mér ei líka'ad lída, ljúft, nær hann vill bid strida?

4. Sál og hold, fjør og fje, fjarlægt er mitt ad sé; þú, Gud! átt þad, sem lédir, og þótt snarlega rédir, líkamann lífi sneyda, lof þitt eg vil útbreida.

5. Daudinn ei deydir oss, dýrdar eilífrar hnoss, hañ gjørir hrjádum færa, og

hvíld ꝼ grefum vera, andstreymi ermd, og mæda, engann þar megna' hræda

6. Nær endast tímans tóm, med tign, og hrellum rom, vor Jesús Kristur kémur, kjær minn Frelsari nemur, mig í hýrd þá ei þrotnar, þar hañ um eilífd drottnar.

7. O! skyldi' eg orvglnast? o nei, eg trúi fast, míns Jesú öllum ordum, er jafnan standa' í skordum! þú ert miñ, þér eg treysti, þinn er eg endurleysti.

## No. 156.

Lagid: Heimili vort og húsin med

Hvad er, sem letur hjartad mitt, til hinnins veg þann képpa, o minn Drottinn! sem ordid þitt, á leidir mig, svo hreppa, fái þar líf og fulla nægd, frí vid óvina makt og slægd; hverr vill því hnossi sleppa?

2. Er Jesú ok svo yfrid hardt, og ofþúngt kroptum mínum? heimtar þá Gud svo mikid og margt, mildum í bodnum sínum? o nei! miñ best þú kéñir krapt, kjærsti Fadir! sem mig hefir skapt, og krapti audgad þínum.

3. J holdi, Jesú! þoldir þú, þá sjálfur freistni alla, er hugaminn vill hindra

nú, og honum þúngbær falla; þú vorkén-ir því veikum mér, vilja þá sússann hjá mér sjer, þó fralmqvæmd finnir halla

4. Elskan þín trúfost eblir mig, og út-býr krapti neytum, hvad sterkur verd eg þá fyrir þig, þeim il gjæddur svo heitum! o! hversu var sú ást þín sterk, er þreif mig burt úr daudans qverk, med písl og þúngri þreytu!

5. AE! skyldi'ei þíñar ástar-glód, upp-verma sálu kalda, ad hyllast bod þín holl og gód? hvad kann eg annad gjalda, verd-ugra lof eñ feta fús, feril þañ, sem géckst, minn Jesús! og baudst mér eptir halda?

6. Þess vegna gégnum þreyngi fér, þín elska sálu mína! uppmálud standi æ fyri mér, áþt þín, harmqvæli'og pína! o hversu fiñst þá iñdælt mér, ef elska'eg þig, ad hlýda þér, þá gjorvöll þýngsli dvína.

7. Mot allri holds og heimsins lyst, hér af verd eg æblugur, sú trú, ad féckst mér fridar víst, fot minn stydur; þinn dugur í mér breiskum sig obl'gann tjer, allt; megna eg, nær hlýdi þér; þar vid minn hreisgist hugur.

8. Allt hvad mig brestur, baudstú mér, med bæn, o Gud! ad sækja; þín Fodur-mild-

mildin opin er, ef eg þín boð vil rækja; andvarpan fer þá engin mín, án bænheyrslu frá stóli þín; hvað kann þá hug minn slækja?

9. Eptir það stríð, sem eg skal hér, í þínum krapti heja, á eg í vonum þar hjá þér, þegar eg trúr næ deya, eilífa unun, eilíft hnoss, iðdœll sé mér því sérhverr kross; hvað létt er því að þreya?

10. Já! breiskt er hold mitt, heimur flár, hætt skeiðið, tæp mín gata; en, Guð! þíns anda kraptur klár, kann mér aldrei að glata; æ svo lengi eg elska þig, obl'gari vill hann gjøra mig, lætur veg réttann rata.

11. Allir samhuga einum þér, auðmjúka lofgjörð segjum, af fúsu hjarta allir vér, undir þín boð oss hnegjum, sem holl og létt eru hver um sig, hjástoðar, Drottinn! beiðum þig, og þolinmóðir þreyum.

## No. 157.

Lagið: Gæðskuríkasti græðari minn.

Svo skal ei framar nockur neyð, né heldur þessa líkhams deyð, mér frá þér megna venda; o Drottinn! eg er ástkiær þér, elska vil eg þig stöðugt hér, en

annars heims án enda; send mér, sem þér, þócknast gledi, þjáníng medur, þig alvísann, eg vil þó jafnan í ollu prísa.

## No. 158.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín.

Allt mitt rád til Guds eg set, á mér sinn vilja verda lét, mér bid eg hans miskun hlífi, heilsa, vit, líf, sál, heidur, fé, hans vernd jafnan befalad sé, nú og í eilífu lífi.

2. Minn audnu hag svo opt og þrátt, ástin þín, Gud! vidrétti brádt, er andvarp eg þér senda, verdi þvi á mér vilji þinn, vel muntú, hjartans Fadir minn! leida mig allt til enda.

3. Hér ad auk bid eg, Herra Gud! hjálp mér ad geyma vel þín bod, og þeim eptir ad breyta, þolinmædi eg þyggja vil, og þeim vægja, sem gjøra mér til, vyrdst' mér nád þar til veita.

4. Hvad verdur mér ad meini þá, máttugur Gud mér stendur hjá? hvad kann mig þá ad þrjóta, er sá hjálpar úr allri naud, øllum sem géfur daglegt braud, og sælu med sér ad njóta.

5. O Herra Krist! mín hæsta von, hverki luckunnar gjøf né tjón, láttú mig

frá þér leida, nád þín ávaxti vora trú, vid synd og qvølum forda þú, og gef oss út- før góda.

## No. 159.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor Gud.

Hú ert minn Gud, ei óttast eg, og ei skal beyrast qveina, þótt eg færist um þyrna veg, þína stjórn sje eg eina; víslega veit eg nú, vid mig ad breytir þú, æ huggar mjúkast mig, miskun þín fødurlig, er eg svo opt fæ reyna.

2. Þér og nád þiñi mig og mitt, miñ Gud! eg fel á hendur; allt hvad eg hefi, þad er þitt, þínu í valdi stendur; þín stjórn mér þægust er, þad besta viltú mér; o Herra gjædsku gjarn! til góds fyri þitt barn, medlæti' og mædu sendir.

3. Gud fær ei sínum gleymt í hrigd, géd mitt sá þánki nærir, von, sem á ord þín er uppbygd, aldrei kiñroda færir. Burt áng- ist øll og sorg! ørugg er Gud mín borg; vel eru gjørd hans verk, ver mig hans geymsla sterk, og til farsældar færir.

## No. 160.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín.

Mitt traust á Gudi gladvært er, Guds nád býdst fyrir Jesúm mér, eg von

lífs eilífs hefi, oss í náð taka aptur vann, og arf hefir í sælu-rann, með sínum Syni géfið.

2. O Herra! hvílík heill það er, hlutfall eiga með sjálfum þér, náð þína' og himin hljóta, með trú af hreinu hjarta þig, heitt að elska og vita sig, alls góðs af þér að njóta.

3. Orð þitt eg glaður uni við, innvortis styrk og sálar frið, hvert sanntrúuðum heitir; það huggar lífsins hörmúng í, heill í meðlæti vex af því, hugprýði' í háska veitir.

4. Viðhaldt mér, Drottinn! hjálpráð mitt! í hreinni trú á orðið þitt, nafns þíns og náðar vegna; lát það upplýsa veg minn vel, vægja gjöra þá dregst að hel, andlátsins mæðu megna.

## No. 161.

Með sínu lagi.

Mitt hjarta! því svo hryggist þú, í harmi og trega velkist nú, fyrir valtan veraldar auð; set þína trú á sannann Guð, sem øllum géfur daglegt brauð.

2 Yfirgéfa þig ei vill né kann, alla þørf þína þeckir hann; hans er himin og

jord. Minn ljúfi Fadir og mildi Gud! mér sendtú hjálp í allri naud.

3. Þú ert minn Gud og Fadir kiær, þitt barn ei ystrgéfid fær; ást þín er mjúk og mild; aūad, þá mædir eymdin hord, eckért hefi'eg traustid á jord.

4. Ríkur af gózi gledur sig; Gud minn! vid þig eg hugga mig, eg þó ovordtur sé; þad er mín trú og eflaus von, ad stod veitir þínum þjón. Þú

5. Þitt ríki, Drottinn! þrýtur sízt, þitt vald er stodugt jafnan víst, á þér er allt mitt traust; ei líst góz hefir eckért tál, audga med því mína sál!

6. Stundlegann beidur eg hugsa'ei á, himneskann vildi'eg gjarnan fá, hvern Jesús hefir keypt, med sínum dauda'og dapri pín; Drottinn! bid eg heyrdú til mín!

7. Allt þad verǫldin er af full, eignir góz, silfur eda gull, stundlegt skraut og skart, lítinn tíma þad lánad var, líknar ecki sáluuni þar.

8. Jesú Guds Son! eg þacka þér, þessa vitsku þú kéndir mér, og Guds ad gánga veg. Veit mér stoduga von og trú, vænst er sálu huggunin sú.

9 Lof og heidur á hverri stund, hæsti Gud! sé þér á alla lund, þig, Fadir! þess

eg bid: eilífann géf oss andar-frid, og arf himins, þá skiljumst hér vid!

## No. 162.

Lagid: Kristnir menn! umfram allar tídir.

Hverr sem ljúfann Gud lætur ráda, líka vonar á hann ætíd, vill hann Drottinn vernda og náda, víst þó ad dynji neyd og stríd. Hverr sem vid Gud sér heldur tryggt, hús þess er ecki á sandi byggt.

2. Hvad stodar oss med hrigd ad klaga? hvad stodar oss vort óp og vein? hvad hjálpar oss þó alla daga, ángra látum oss sorgar-quein? skál vors mótgángs, sem afmæld er, aukum med harmi sjálfir vér.

3. Bíd, kristin sál! um stund í stilli, stodva þitt géd, svo lyndi þér, ad Guds nádar vild á þér fylli, alvitsku hans hrad þeckast er; Gud, sem hefir útvalid oss, opt til farsældar sendir kross.

4. Fulltreyst, og Guds þíns gack á vegi, gjör öll þín verk med dygd og trú; um blessun Drottins efast eigi, aldrei mun þér þá bregdast sú; hverr sitt traust á hann setja vann, á sandi ecki bygdi hann!

## No. 163.

Lagid: A Gud alleina.

A Gud eg einañ, alla set von og traust, vil med hug hreinañ, hañ dýrka endalaust, i geymslu' og gjætur, Guds eg önd mína fel; frá hrösun fætur, frelsar hann mína vel, og i ljósi lætur, sitt ljúfa ástar þel.

2. Sekt synda þúnga, Son Guds fyrir mig galdt, hann hjarta' og túnga, heidri og lif mitt allt, ef eg hans bodi, ætid trúr hlýdnast vil, alls engiñ vodi, önd miñi'er skiædur til. Hans mig hjálp adstodi, vid heimінn þegar eg skil.

3. Þér lát mig þjona, þú mildi Herra og Gud! vel vid ad una, veg þiñ og stunda bod; ad mig ei giñi, illrar veraldar slægd, né vendt eg vinni, svo verdi nód frá bægd; haf þá mig i minni, um mildi'er bid og vægd.

4. Þú mig hughreystir, i hverskyns sorg og neyd, sem svo dýrt leystir, med Sonar þíns pínu'og deyd. Hvad má vid meta, þad mætis allt eg á; hvad mig hrellt géta, sem himna frid vann ná! þinn Son vard sigur-hetja, og sigur gafst mér þá.

5. O Jesú! eina, athvarf og venin mín, lát mig lífs beina, leid brædra'í dýrd til þín; ei óttast nái,í grof síst stadar nem, þig daudi'eg þrái, þú vel mig leidir heim, svo Guds eg sjái, sælu, í dýrd þá kém.

6. O ædstu gledi, er eg þá Jesúm finn! med gjædsku gédi, Grædari talar minn: kom,madur mæti! hjá mér nú eilífd tef, í sóma sæti, sem eg þér búid hef, ædsta eptirlæti, o Jesú! þad mér géf.

## No. 164.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Burt med heimsins ónýtt yndi! ei er veröld mér svo kjær: aldrei faunst þar leika'í lyndi,lángvinn tign, né ro glad-vær; allur í hæd er hugurinn, hefur sig þángad andi minn; helzt til létt er heims ágjæti, himin sælu þyngd ad mæti.

2. Gjorvallt vil eg gladur afsegja, Gud minn! þad sem stundlegt er; minn, skal enginn hlutur hnegja, hug frá skyldu, dygd og þér; þó ad heiminn ætti eg, en útibyrgd frá dýrdar veg, sál mín gengi villt í voda, vildi lítid hitt mig stoda.

3. Gud af ollu gódu ríkur! gnótt eg á, nær hef eg þig, eg veit frá mér ei þú víkur,

alvöld hönd þín leidir mig; ef þá kann ad mæta mér, mein sem þúngt og biturt er; þo eg í bljedi þykist lída, þitt er ad bjoda, mitt ad hlýda.

4. Ségnum lífsins eymd og anna, ánægdur eg þreyti gáng: augad hoi sïr trúartama, til þess lífs, er veit í fána: señ hvar gledi og sælu hnoss, Sonar þíns gjefer búin oss, fiqur, frid og sæld um aldir, í sitt hlutskipti fá útvaldir.

## No. 165.

Lagid: Rís upp, mín sál! og bregd nú blundi.

Alvaldi Fadir allra þjóda! á þig treystir mín frelsud önd; eg fel mitt líf og allann goda, í þína mikl u verndar-hönd; alvísi Gud! best allt þú sjer, er til velferdar gagnar mér.

2. Auga mitt skjó-skygnt er mjog tídum, um Kammt hugur og dugur hver, en þú, sem stjórnar ollum lýdum, aptur hug og dug géfur mér; best hagar ollu, best þú sjer, bornum þínum hvad gagnlegt er.

3. Opt, þá mitt hjarta ángist reyndi, óttafullur var naudum í, mína andvorpun miñ Gud heyrdi, mér gveikti gledi ljos á ný; svo rís og gédur eñ hañ er, ætíd gjætir hañ vel ad mér.

4. Eg fel, minn Gud! í umsjá þína, allann velferdar minnar hag; mér vann Jesús þinn Sonur sýna, sannrar manndygdar háttalag; o! ad eg þyldi eins og hann, andstreymi hvert, sem mæta kann.

5. Omegi dandans ei skal qvída, eg þó ad bleikum verdi ná, af því Frelsarinn allra lýda, er vinur, sem mig dæma á; svo sem hann mína eg fel ønd, o Fadir kjær! í þína hønd!

## No. 166.

Med sínu lagi.

Hverr sem ad reisir hæga bygd, hærsta Guds skjóli undir, í geymslu Drottins og gleymir brigd, géfur sig allar stundir; sa talar vid Gud: þú tókst vid mér, treysta vil eg því gjarnan þér, og una'á allar lundir!

2. Vel mun og Drottinn vernda þig, fyrir vélum allra handa, þó skadleg hætta sýni sig, sízt mun þér kunna granda, hans vernd og skjól svo blífir hér, í hverri neyd hann sendir þér, sinn styrk og hjálp til handa.

3. Svo mun og líka sjálfur Gud, vel sjá til þín og leida, á vegum þínum þér veita sjod, og venda øllu til greida; frá

þér burthrinda háska' og pín, ad hvergi náir þú fætur þín, á minsta steini meida.

4. Hvern sem ad lángar mjög til mín, (mildur Drottinn svo kéndi), hann skal eg leysa' af skada' og pín, og skýla med verndar hendi, bænheyra hann og hjálpa' í neyd, honum loks géfa væraun deyd, og líf, þó æfi endi.

5. Lífdaga hans eg lengja skal, og láta þá ei brádt þrjota, en hjá mér upp í himna sal, hann mun fullsælu njota; þar sýni' eg honum mitt hjálpar-rád, hjartans unun og fulla nád, svo umbun fái' hann stjota.

## No. 167.

*Kristnir menn! umfeam allar tídir.*

Fyrir þig, Gud! sem veldi vídu, vís Stýrir Alheims, fram eg ber, af klöcku hjarta þackir þýdar, þvag aladur kjor, sem lientir mér; asinika Födur þelid þitt, þeckt' eg vid sér hvert frorid mitt

2. Í inndælt skart þú ár hvert klædir, ótölu blómstra', er handrid ber, frjosamri döggu grundir grædir, glérnist ei mínsta stráid þér: skyldir þú géta glermt mér þá, gjædsku þína, sem nýtsu á!

3. Nej, hjartad glemma má fyrr móð-ur, mót ed lis bodi, fóstri sín', eñ þér, líkn-sami Gud minn gódur! glemmst sái vel-ferd sanna mín; þolgódur lifs eg þreyti veg; þú ert minn hlif, ei óttast eg.

4. Eg óttast ei þá eymd og vína, á heims vedhlaupi varpast mót, sorgar or djúpt þó sálu mína, særi, veit eg miñ leidd-ir fót, þess vegna fram á þrauta stig, ad þú, minn Gud! leidréttir mig.

5. Vongódur svo minn veg eg feti, veikann upplífgar huga þú, ad traust á Jesú ord eg setji, um dýrd med þér, þó sídi'eg nú, minn Gud! á himnum þar hjá þér, þar eg fullsæll um eilífd er.

6. Líknsami Fadir! Gud minn gódi! géf þessi orugg von til þín, hvad sem kañ mæta heims um slodir, hverfi' aldrei úr brjósti mín; þá gèfur, sviptir, Gud miñ! hér, gjorir þú allt til besta mér.

## No. 168.

Med sínu lagi.

Af þér, Herra! hef'eg nú von, hjálp, svo eg ecki verdi'ad smán, hér eda'í hinu lífi, frelsa þú mig, þess beidi eg þig, þín ást mér ætíd hlífi.

2. Barnheyr þú mig af mildi nú, miskunn og náð eñ til mín snú, flýt þér fullthngt' að veita; þá stend og bíð, í stórri neyð, styrks hjá þér einum leita.

3. Hjálp ert þú mín og blífdin trú, heilagt orð þitt er verja sú, er öllum endir vanda; þá Herrann Gud er hjá í nauð, hverr kann þá móti' að standa?

4. Eilífi Gud! ei vík frá mér, anda minn befala eg þér, medtak hann þér til handa, o Herra trúr! eymd allri úr, leys mig þá lífið endar.

5. Herra eg flý í braut til þín, þú einsamañ ert aðstoð mín, huggun og hjálp mér sendir, mín tíð og stund, eign, líf og önd. allt er í þinni hendi.

6. Heiður og lof sé, Herra! þér, sem hefir óverðugum mér, hjálpað í hörðu kífi, og hétst af náð, óhultum stað, í því komanda lífi.

7. Allir trúaðir elskið Gud, oss vill hann frelsa' úr hverri nauð, einkum þá honum hlýða; hof-móðugt géð, vanheiðrur með, hegningu'án efa bíða.

8. Þar fyrir hafið glaðvært géð, Gud prísið huga' og raustu með, allir sem eptir honum, bíðið um stund, því yðar önd, úr þúngum leysist raunum.

9. Fødur, Syni og Anda nú, ædst lof og dýrd af huga'og trú, sýngjum vér allir saman; veit þú oss, Gud! fylgi og frid, fyrir Jesúm Krist, Amen!

## No. 169.

Lagid: Náttúran ell og edli manns.

Verdi æ tíd hvad vill minn Gud, vild hans er æ hid besta, vís er þeim jafnan vernd og stod, vid hann er sína trú festa; hann hjálpar trúr, eymd allri úr, agar verold í máta; þann á honum traust, hefir efalaust, ei vill né kann forláta.

2. Herra Gud traust og heill mín er, hjálp, von, líf, eilíf sæla; hvad sem hañ vill, þad verdi mér, vil eg því ei mótmæla; hans mildi klár, mín høfud hár, hefir øll talid án efa; hvad hañ mér fá, best henta sá, hann vill af nád mér géfa.

3. Þar fyrir auma verold vid, vil eg fúslega skilja, til míns Drottins í fullañ frid, fara eptir hans vilja; fel mína ønd, í fødur hønd, hvert farsæld bíd edur voda; hans ástar þel, mig verndar vel, og vill í dauda stoda.

4. Súngin þøck, heidur, sæmd og lof, sé Fødur allrar mildi, sem út fyrir oss Son-

inn gaf, synd heims að bæta skyldi, og á hann blèð, æ, mannleg þjóð! átt það í minni fresta; því hugsa tíðt, og þacka blídt, þá náð og elsku mesta.

## No. 170.

Lagið: Herra Guð í himnaríki.

Merkú Guð Faðir! faðir minn, í Frelsarans Jesú nafni; hönd þín leiði mig út og inn, svo allri synd eg hafni!

# 4. Elska til sjálfra vor og Næungans.

## No. 171.

Lagið: Kom! Skapari heilagi Andi!

Nóssöm samvitska'ef er að eins, eign mín, hvað kann þá bløskra mér? hvað fær þá orðið mér til meins, megn þegar qviði aðra skér?

2. Flecklaus samvitska'og falslaus trú, farsælust hlutdeild mín er þá, þeim friði'er Jésur sæla sú, svipta kañ engiñ mér í frá.

3. O hvílík gleði! sagt við sig, með sanni geta': eg í mér fann, glæð til hins

illa, geymdi'eg mig, Gudi sé lof! eg ýfirvann.

4. Æ hversu þúngt um siálfann sig, ad segja hljóta þar á mót; á lasta vondann villu-stig, viljandi minn eg setti fót!

5. Upp til Drottins med hjarta hreint, ad horfa'og segja: Gud minn! þú, ert æ mitt athvarf ljóst og leynt; hver lucka veitist stærri' enn sú?

6. Sjá! allt hverfur, þig belid burt, hédan senn flytur, daudans stein, hvad stjófgar? hann fær hæganna gjort, hugar rósemd hjá Gudi hrein.

7. Sæll, kristni madur! sem ad þér, sálar-ró þessa finnur hjá; því siálfur daudinn hana hér, hrakid fær ecki burt þér frá.

8. Sá hinn audhræddi segi því: sjór, himin, lønd og sképnan hver, samblaud þó fyrsta falli í, fødur-hønd Drottins líknar mér.

## No. 172.

Lagid: Til þín, heilagi Herra Gud!

Gud! mig skóp ást þín mildilig, ad mætti'eg sælu njóta, ef eg trúfastur óttast þig, óttast þín løg ad brjóta; vandi eg hjarta'og verk mín hér, vottar samvitskan þetta mér; hún kann afsaka'og hóta.

2. Innðæla jafnan andar-fró, eg finn mitt hjarta kjæta, nær vilja Guds í veikleik þó, vidleitast hlýdinn sæta; samvitska unun sanna hér, sífeldlega þvi gèfur mér, ef skyldu gjørt' eg gjæta.

3. Og þessa gledi, yndi' og fró, eckért kann frá mér taka, hreinskilni mín er huliu þó, hugsun þá læt eg vaka, ad Gud, minn Gud, allt gjørla sjer, Gud min umbun og Fadir er; hún lífgar, hún afsakar.

4. Æ! gódi Fadir! einatt þig, eg stygdi margvíslega; samvitskan þá ásakar mig, sál fylliſt blygdun, trega; óró, nagandi ángist mér, eptirfylgir hvar helzt eg er, og offækir alla vega.

5. Já þó eg hjartans freisti' ad fá, fordæming nidur kasid, heims úti glaum mér gjøri slá, ad gleymsku brot sé vasid; sú værd er engin sálar fró, svipula huggun von sú bjó; sist fèck hún hug minn hasid.

6. Þann fognud veitt, er vara má, vist ei heimurinn gétur, nær endalokin eptir á, íhugar sál mín betur, eg sæ þess þá med undrun gád, ad girnda leid er blómi stráð, en í óheill mig setur.

7. Æ! lát þá þetta, gódi Gud! mitt gjørvallt hjarta hræra, ad þín eg stundi

ástrík boð, með alúð geyma'og læra; Faðir! sú ein mín farsæld er, nær sús kappkosta þóknast þér, dygð ydka' og dáð þér kjæra.

## No. 173.

Lagið: Guðs Son kallar: komið til mín.

Dygða-veg leið mig, Dottinn! á, og dygða settu marki ná, styrk mig þess gá og gjæta! hversi mér náð þín, Herra kjær! heims þessa gledi engin nær, mér þann missir að bæta.

2. Æ þegar glæpa añ eg lyst, úr mínu hjarta burtu misst, sönn gledi fer á flótta; og þá rennur í þánka minn, það eg skal fyrir dómstól þinn, ángraður skélf af otta.

3. Kéñ mér, o Guð! sem gjætir mín, gánga fram eptir boðum þín, örðugar lífsins leiðir, samvitskuñar þá frið eg fiñ, og fögnuð eilífañ, Drottiñ miñ! er þú útvöldum greiðir.

## No. 174.

Lagið: Hvar mundi vera hjartað mitt.

Lífs reglur hollar heyri menn, er himnasæld girnast ná; dauða, eilífð og dóminn enn, daglega þenkið á, nærsta mjög þetta nálgumst senn, nauwn er lífsstund að

fá; lagi því hverr svo lifnad sinn, ad lendi hann Gudi hjá!

2. Dvíst er þad hvert úngur mann, elli dogunum nær; ydrun sendi því undan hann, ádur enn daudinn slær; margur hastari helstund fann, heldur en meintum vær; lít í dag máské kallast kann, sá Kongur lifd' í gjær.

3. Voga þú ei fyrir vinskap manns, ad vinna hvad órétt er, því Guds er eins, en ecki hans, yfir ad dæma þér; þeim hylli Drottins Dómarans, daglega abla sér, þá reikníng heimtar lýds og lands, linkind í málum tjer.

4. Ottastú Gud og unn, sem ber; annast náúnga þinn; óvin, þolugur, íllt ei gjør, ollum vert gódvikinn, lát ætíd nockud ágengt þér, áfram dygda veginn; Drottni lifir, þá deya fer, sá deydir vilja sinn.

5. Umgengni þína og athøfn best, allskonar dygdum prýd; þolinmódur þá veitir verst, vidmóts hegdan sé blíd; alltsem þér dag hvern yfir sjest, ydranin bæti þýd; en þad þú margt gott ógjørt létst, ángrt þig fyrr og síd.

6. Stunda þú svo ad vera víst, sem vilt ad haldinn sért, annars heims fylgir

oss þá síst, utan hvad hofum gjort, i Herrans augsýn hvern dag fyrst, hér svo ráðvandur vert, að þú ei skélfist þó af Krist, þá dæmist eins og ert.

7. Set þér lifnadar leidréttíng, lífs medan audid er; sá heimsins varast vjelin sling, vel þóknast Gudi fer, þacklætis er það áminníng, ef sæld hann géfur þér, en hitt ydrunar uppvakníng, ef þú mótlæti ber.

8. O Drottinn kjær! sem sjálfur sjer, þá sælu' er girnumst fá; vertú oss nær, svo vinnum vér, vilja þíns jafnan gá; þín dýrd einskjæra heidrist hér, en himnum sídar á, sjáum þig vær og sýngjum þér, sigur-vers englum hjá.

## No. 175.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín.

O Gud! hvad reikna mañinn má, mót þér almættis tignin há, er sképnu alla nærir; o hversu mikil er mín rird, er eg hugleidi þína dýrd, sem leyptrar ljóst skjæru!

2. Af her Guds engla himnum á, hin allra mesti' er lítill hjá, Skapara sjálfum sínum; en eg hjá þeim? nær eckért er, á gjætid mitt, það fyrir ber, skjótt líkast skugga mínum.

3. Séf, Herra! ad eg æ hvert sinn, allan vidkannist breiskleik minn, og sinndi audmjúkt læra, eins og Lausnarinn liúfur hér, lífs og deyandi kénndi mér; þér, Gud! ber einum æra.

## No. 176.

Lagid: Kem! Skapari heilagi Andi!

Hú klagar! bøl finnst þúngbært þér, þess stands, er snaudur lífir í; hnøis stundar lucku stærri' og sier, stundar forséfins eptir því.

2. Hvad viltú syrgja, hví med grát, hjarta þitt særa' og vhli hér? mun þad æ heill, vel géf ad gát! sem girnd vors hjarta dró ad sér?

3. Neyt þess, sem skamtar Gud' þér, gjør, gjarnan hins sakna', er ecki fær; sína þraut hafa sérhver kjør, sérhverjum hag sitt yndi grær.

4. Drottinn á allt, útbýta bjørg, best med vísdómi sonum kann, ecki sem ósk er ó-þorf mørg, en þó sem hverjum hollast fann.

5. Viltú voga ad þenkja: þér, þá hafi gleymt ástríkur hann? þó ad til gods ei vinnum vér, veitti hann heill í sérhvern rann.

6. Eyd þú lífinu ecki med, ánægjulausu vhli þá, þitt ræktú kall, haf gladvært géd, gjør lífs-tóm nota best, sem má.

það sér, fyrir aud og ríkdóms gœdi, og vita'ei hverr það hljóta skal; Herra! kēñ mér mitt daga tal, hjá þér svo hugg- un nœdi.

5. O Gud! þú ert mín adstod best, á þig minn andi treystir; mín er sú bón og þörfin mest, mig frá óförnum leysir; hjálp mér í dandans dapri pín, Drottiñ! vard- veittú sálu mín, og til lífs mig uppreisir.

## No. 234.

Lagid: Heimsins Stýrir forsjón fasta.

Monin kjæra, ellífd eina, arfleifd mín þá vard eg til; glœpa nœra glód ó- hreina, en gœta þín, er dára-spil; hverr vill þar um hugsa hjod, og helgunar ei velja slód, sem til vista gledi greidist, gjörvöll lyst þá jardar eydist.

2. A Gud þig! miñ andi kallar, á- heyrn ljá nú bœnum mín, aldrei mig lát aumann falla, ordi frá og bodum þín; fallinn reis mig fœtur á, fljótt afleys og miskun tjá; fyrir hiña seku sauda, synd- ir minn leid Jesús dauda.

3. Veit mér brúka vel í hagiñ, vœnstu nádar géfnu tíd, svo vidljúka sérhvern dagiñ, sjáist dáda verkan frid; ad gud- rœkiñ, aldrei eg, útaf krœki dygda veg,

inn í blíða eilífð lánga, ugglaus síðan vil eg gánga.

4 Fær þá stríð í friði enda, forn ánauð ir forrð í ró; engin qvíði' og klögun henda, kan hvar dauðinn aldrei bjó, ummindaður, alheill þá, eg hug-glaður lokßins má, Frelsarann í fegurð líta, fundinn þann ei tímar slíta.

No. 235.

Lagið: Far heimur, far sæll!

Mér, heimur! far frá, því nú þreytist sál mín að sveyma þér hjá, og glaumur þinn metandi ecki neitt er, mót unaðsemd himins, sem lofuð er mér, mig heim þángað lángar, því hér leiðast fer, :,: hégóminn einber. :,:

2. Seig mér satt: hvað er, sem heimurinn flárádi heilla nafn lér? reykandi skuggi og skýa flug bradt, skjótt uppþotin bola, sem hjaðnadi' og datt; í sút vafin misskíning saunkölluð hér, :,: hégóminn einber. :,:

3. Hvað auðurinn er? sá afguð, sem dárunum dýrmæti lier, og tældi svo marga mjög frómleika frá, en féck þó ei mettað þann sýsti því ná; þú, ríkdómur! ert eins og reyniſt þú mér, :,: hégóminn einber. :,:

4. Hvad gyldir heimsins makt, hans ó-skapa veldi, hans oflæti stakt? hvad opt er þad ofundad, offókt og hrjád? hvad opt glatad, umbilt og hatad og smád? þiñ skérfur, þú dárlega drambsemi! er, :,: hé-gómium einber. :,:

5. Abl, aldur, hvad er? hvad snilli? hvad heilbrigdi' og heppileg kjør? hvad unnusta mannaña, adstod og rád? hvad erfidis ákasi, mæda, mañdád? hvad er þad, nær daudiñ oss útkalla fer? :,: hé-góminn einber. :,:

6 Því far þinn veg nú, þú, heimur fallvalti! og hjálp þín ótrú; eg sný hug til himins og hañ stunda á, til Herra míns Jesú, minn Frelsara sjá; þar hjá þeim útvøldu' hañ hét og bjó mér, :,: víst sjálfum med sér. :,:

7. Þar mun eg þad fá, sem hér á jørd-uñi'ei heyrdi né sá, þañ ríkdóm, þá vyrd-íng, sem varanleg er, þá vegsemd og gledi, sem aldreji þver, þá einkis eg sakna, því ávin̄ giørvallt, þar Gud er mér allt, miñ Gud er mér allt.

8. Sæl verdur sú stund, eg sídasta burt-farar sætañ fæ blund, nær sála mín dupt-inu frá skilur frá, til síns Guds og Skap-ara upplída má; sú komi sæl stundin! mér

komi'á hans fund! kom dauda kjær stund!
kom mér á Guds fund!

# 9. Fyrirbænir.

## a) Fyrir ollum yfir høfud.

### No. 236.

Med sínu lagi.

Géf þiñi kristni gódañ frid, o Gud! um allar tídir, því eckert høfum vér añad líd, eiñ þú fyrir oss strídir, sjálfur Gud vor sannur Fadir!

2. Þú einu heilagann hug og rád, og hreint framferdi veitir; géf oss þad hjarta'af þiñi nád, þins ords alleina leiti, eptir því í ollu breyti.

3. Þó vor misgjörd sé mørg og stór, med nád vyrdstú þad bæta, í líkn og miskun lít til vor, lát oss ei hegning sæta, en fyri Jesúm mildi mæta.

4. Um þad bidjum vér oll þín børn, ad frid vilþir oss géfa, med þinni hønd og mildri vørn, móti óvinum oss hlífa, þér til lofs svo mættum lifa.

## No. 237.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Gud! þú kañt og vilt oss veita, vora þad sem bætir þörf, um adstod þína ecki neita, allra blessa kall og storf! auki krapta oss þín náð, ad ebla brædra heill med dád, ad vér gognumst æ sem flestum, unn oss, Gud! vér hug á festum.

2. Korónu þeim þú baudst ad bera, byrdi létta gjerdu hans, þér til heidurs hañ lát vera, heill ríkis og Íslands! fús sérhverjum géfi gaum, sem gjerir rétt og sañleiks taum, dregur, ebli lán svo lýda; laungun hans sé þér ad hlýda.

3. Valdstjórn bjóda vyrdstú' á landi, ritiku þræda rétt á mid, ad vernda góda', en varna grandi, veit hjálprædi þitt og lid; þeim oss dygda lýsa' á leid, léna trygd, en forda neyd; sín embætti veit þeim vanda, vel af mætti'og náð þíns anda.

4. Blessa þá, sem bygdir yrkja, blessa heirra sveita' í frid, med vellídun vyrdst þá styrkja, vid forsjálni, heidur, grid, hvern ærlegañ ydju-mañ, í stétt siñi blessa hann! lát þad vera sérhvers sóma, sæmd vors ebla lands og blóma.

5. Gud

5. Guð! þitt orð og andi leiði, oss á dygða vegi hér, aðstoð nema oss þú greiðir, ekkért megnað saum vér; þér að þecknast uñ þú oss, svo eðlast mættum dýrðar hnoss, það trúlyndum þínum géfa, þjonum síðar munt án efa.

## No. 238.

Lagið: Heimsins Stýrir forsjón fasta.

Faðir! þenk til þeirra', er gráta, þúnga mótgángs undir hér; þyrðsiú krapt þinn vera láta, vægð og styrk þeim nauðir ber; allra kjør um lá og lend, leika, Guð! í þíñi hend, þú kañt græða, þú kañt særa, þú kañt briggja og endurnæra.

2. Í verndar þinnar skjól'og skugga, skulum vér lifa sorga frí, fyrir ótta, fyrir ugga, friði góðum jafnan í. Guð! þín miskun eilíf er; eins framvegis géf oss hér, allt hvað þurfum og til þinnar, ávalt þénar dýrðarinnar.

## No. 239.

Lagið: Heiðrum vér Guð af huga' og sál'.

Vors Herra Jesú verndin blíð, veri með oss á hverri tíð; Guð huggi þá, sem hrigðin slær, hvert þeir eru fjær eða nær; kristnina efli'og auki við, yfirvelduuum

sendi lid, hann géfi oss öllum himna frid!

## No. 240.

Lagid: Gjervell kristnin skal gledjast nú.

Hín hátign, Gud! um eilífd er, af dýrd-ar-stól himnanna, í náð til jardar sannt þú sjer, sendir heill bygdum manna; æ vér þig bidjum allir nú, ad vort födur-land blessir þú, veitir frid, velferd sanna.

2. Géf vorum Kóngi gjæsku'og ráð, gagn stunda ríkja sinna, ad elska frid en-dbla dád, og þegnum heill ávinna, kall sitt ad rækja kénn svo hér, kórónu'ad lífs í dýrd med þér, veitist og vegsemd finna.

3. Vors Kóngs Rádgjöfum veittu nád, vísdóm og adstod sanna, og stjórna þeirra ydn og dád, öllum til gagnsemd-anna, svo allir gódir eignist frid, og med réttvísi geymist vid, árásum illra manna.

4. Fadir! lát rigna foldu á, frjófgun-ar-krapt af hædum, umgird vort land og geym þad frá, grimmum hernadi' og skjædum; Gud! þú med speki gjörir allt, géf oss ad treysta þér ávalt, bædi' í medlæti'og mædum.

5. Géf þegni hverjum gedjist hér, gaum skyldu sinni'ad veita, á sjó og landi brauds

sem ber, og blessunar þinar leita; ástundi svo með ást og dáð, aðstoð, huggun og þarfleg ráð, voludum jafnan veita.

6. Láttú oss, Drottinn! líkjast þér, og líf vort dygðum prýða, géf öllu því, sem gjøra ber, góda framqvæmd, heill blída, fodurland rétt uns finnum vér, hvar fáum betri styrk en hér, þér, Fadir! þjóna' og hlýda.

## No. 241.

Lagið: Gudi lof skal önd mín inna.

Frið veittú voru landi, voldugi Fadir! fyrr og síð; Yfirmönnum öllu grandi, og undirgéfnum forda lýð. Þá lídur ad lífsins enda, og linnir heimsins stund, géf oss þinn guddóms anda, sem gledji vóra lund! vort athvarf allt í heimi, og adstod Drottinn er, hans hønd oss hlífi' og geymi, vid háska' og naudum hér.

## No. 242.

Lagið: Sólin upprunnin er.

Lát landið frjófgun fá, fulla og sæta; réttinn sinn framgáng sjá, og sannleiks gæta. Gud géfi mér, minn deildann verd á medan, og til þess eg vid grøf, aflegg minn ferda staf, og held burt hédan;

## No. 243.

Lagid: Kristnir menn! umfram allar tídir.

Kónafins lífdagar fjølgun fái, fyrri og síd í blessun vér; hans stjórn luckn og heillum nái, hans kyn blómgist, uns tíd øll þver! o Gud vor Fadir! oss heyr nú, vér æskjum þess hann blessir þú!

2. Um kríng hans sæti sífeldt skíni, sannleiki'og nád-réttlæti med, þín adstod hañ med heidri krýni, heill og fridur hans lífgi géd; o Gud vor Fadir! oss heyr nú, vér æskjum þess hann blessir þú.

## No. 244.

Lagid: Rís upp, mín sál! og bregd nú blundi.

Heidur, frid, luckn, lán og gjædi, legg yfir þann, sem Kóngur er, landa-stjórn hans og hjarta bædi, himneski Kóngur! líki þér; landa-búum hans legg þau rád, ad luckn fái'og gjæfu nád.

---

### b) A Strids-tímum.

## No. 245.

Lagid: Væri nú Gud oss ecki hjá.

Sé Gud med oss, vér engri þá, óluckn þurfum qvída, hann má traust setja

hvørr einn á, í hrigdum mædu tída, hann
sá godi Gud hjá oss er, hann frelsar oss,
því skulum vér, hans gladir hjálpar bída.

2. O Gud! þú hefir opt það gjort, er
menn síst vænta kunnu; já, opt þá ský
umkríngdu svørt, iñdælust ljós uppruñu;
vón þegar komin var í þrot, vér þinnar
hjálpar fengum not, meïn fárga oss ei luñu.

3. Vér bidjum þig, vor blídi Gud!
bæn vora heyr, sem fadir! set takmark
strídi, sorg og nand, send oss frid, svo ad
gladir, þitt frelsi sjáum, þitt í hús, þakk-
látur gángi hvert og fús, þér prís ad hessa
hradir.

---

Séf þinni kristni gódann frid. (sjá
No. 236.)

---

c) Í skjædum stór-sóttum.

No. 246.

Lagid: Væri nú Gud oss ecki hjá.

O Gud! hvers nád og adstod blíd, er
þeim vís, sem þig bidur, þú sendir
oss nú sorgar tíd, svo burt vor hverfur
fridur; ángistin girdir um oss því, all-

morgum daudinn kastar í, grafar nidamyrkur nidur.

2. Oss nidur lúta'i naudum því, nþar hørmúngar græta, daudanum hljótum hardtnær í, hverju fótspori mæta, einn vinur sköa annan má, og bródir fordast bródur sjá, síns lífs sjálfur ad gjæta.

3. Enn verdi, o Gud! vilji þinn, var hann og er þad besta; vægdar þig bidjum vér hvert sinn, von høfum á þér festa, þó ædi daudinn enn á ný, ollu til góda snýrir því, þin fødur-mildin mesta.

4. Þeirra styrkl þinn andi ønd, er hédan svipstast ega, rétt þeim í dauda hjálpar-hønd, ad hafi trú ódeiga; von um fullsælu vek þeim hjá, værd andar lát þeim géfast þá, í fridi fara mega.

5. O Drottinn! minnstú mæddra vel, mildi gled alla þinni, velt oss hreintrúad hjarta-þel, hrind frá oss efa-sinni; géf ad í qvøl og kjæti vér, kappkostum ad oss daudinn hér, vidbúna vel æ finni.

---

d) J

## d) J Landplágum.

### No. 247.

Lagid: Jesús Kristur er vor Frelsari.

Réttláti Gud! hvers hegníng strída, hrædilegt er, ad sjá lída; í þinni hendi er himin stór, hafid, jord, eldíng, vindar, snjór.

2. Hvad sem þú býdur, hlýdir, kémur hvad þú vilt afmá sjest ei fremur, árfæld, hallœri, audnu, pín, almáttug stýrir forsjón þín.

3. AE Gud! sjá nú hvad yfir dynur, undir hörmúngum land vort stynur, þín börnin qveina' og barma sér, bodi daudans þvi geist um fer.

4. Monnum og sképnum missist fridur, menn og sképnur því stynja vidur, hverttveggja þetta, Herra! þó, hondin almáttug þín tilbjó.

5. Lifandi Gud! sem lífid ljenar, og lífs heill vorri sjer hvad þénar, minnst vor í nád og vægd oss sýn, vér treystum uppá gœdskn þín.

6. Bjód þú land-plágum, hættu, hrigdum, ad hverfa burt frá vorum

bygdum, fodurland vort og fólk allt hér, Fadir í miskun tak ad þér.

7. Bjód himni, jörd og hafi líka, Herra! oss færa blessun ríka, forþéntu straffi væg oss vid, vort land umgirdtú þínum frid'.

8. Séf oss framfør í gódum dygdum, gjæt vor vid syndum, qvøl og hrigdum, vernd þín oss geymi' um vötn og lønd, vér felum oss í þína hønd.

---

## c) Fyrir Deyandi.

### No. 248.

Lagid: Øldúngar Júda annars dags.

Helm, sem daudinn nálægist nú, nádugi Drottinn! hjálpa þú, o hvad hormúngin hardt þá skjer, hvad jardneskt er, eckert þá framar huggar hér.

2. Þinn kraptur styrki þeirra lund, sem þungann báru dags um stund, nú er lífs dagur enda á, æ! láttú þá, qvöldværdir gódar, Fadir! fá.

3. Englnn svo hladist eymdum hér, ad vonar-sjónir missi' á þér; send veik-

um hægð og legg þú lið, lát sálar-frið, lina ofraun og gefa grið.

4. HErr! lát þá minnast á það vel, að nú síðasta'er ranna jel, og hvern einn líka hyggja' að því, að heimi í, andstreymi við er enginn frí.

5. Þitt orð þeim sýni sannleik þann, sigur á deyð að Jesús vann, og að oss tilbjó samvist sá, þér sjálfum hjá; gef þeim traust setja allt þar á.

6. Veit þeim öbluga von og traust, um vegsemd með þér endalaust, og þá farsæld, sem er þér hjá, þitt auglit sjá, og meiri æ fullkomnun fá.

7. Vert þeirra Guð og gef þeim náð, gjæð þá við andlát styrk og dáð; líkhamans þegar bresta bønd, í blíða hönd þína, Guð! meðtak þeirra önd.



# III. Sálmar til vissra Tíma.

## 1. Ara-skipti.

Eiñ Gud þér allir prísid. (sjá No. 31.)

No. 249.

Med sinu lagi.

Guds vors nú gædsku prísum, gódir rétt kristnir menn! med saungunum líkn hans lýsum, lof segjum honum eñ, fulltíngi fyrir sitt, sem hefir af gædsku sinni, hverr eiñ trúi'eg þad sini, á þessu ári' oss veitt.

2. Miskunsemd hans og mildi, vér minnumst gladir á, og yfrdum víst sem skyldi, hans velgjorníngu þá, er hann nú þetta ár, oss gétid hefir ollum, konum bædi og kollum, og kunnugt fyrir oss stár.

3. Voldugur Drottinn veitti, vorn' á landi frid, allt fólkid einnig fæddi, og gaf hvad þurfti vid, af hans miskunar hønd, því hogd og hæum vildi, blessun fadrinn mildi, géfa um gjorvallt land.

4. Oss hefir varðveitt alla, af föðurlegri náð, ef vildi' hann yfir oss falla, sem vor er mörg óðáð, með jafnri mæðu' og pín, fyrir laungu værum vér deyddir, af sorg og eymdum eyddir, hverr fyrir syndir sín.

5. Sí-ljúfur svo sem Faðir, svo er hann mildur víst, vér fáum frelsi glaðir, fyr'r vorn Drottinn Krist, með réttu traust' og trú; hañ af oss sviptir syndum, setur skamt hrigðar-stundum, veslum hjálp vís er sú.

6. Allt gott þú einn oss géfur, o Guð vor himnum á! allt hvað andardrátt hefur, allt skal þér lofgjörð tjá! í Jesú nafni nú, þín biðja börn eñ fremur: blessa árið, sem kémur, allra þörf uppfylltú. :,: Í Jesú nafni nú, þín biðja börn eñ fremur: blessa árið, sem kémur, allra þörf uppfylltú. :,:

## No. 250.

Lagið: Herra! þér skal heiður og lotníng gr.

Eitt á enda ár vors lífs er runnið, enn oss sendast Guðs af náðar-brunni, lífn, hjálpræði, lífsins gjæði, lán og næði, hvarf það hræða kunni.

2. Hjartad dansi, honum lofgjörd inni, hátt til ansi, túnga, mannvit, sinni, hverr med gáti, gefgi kátur, Guds nád játi, lída'ei láti'úr minni.

3. Honum sálin hlýdni sverji vísa, hans vort málid, æ skal gjædsku prísa; vort hacklæti, veri' hans mæta, vilja'ad gjæta, ást svo ætíd lýsa.

4. Honum felum hagsæld, árs komanda; hann sjer vel um oss hvad mun þá granda? oss hann seka, ei útrekur, allan speki, hans burt hrekur vanda.

5. Alvøld mildin, ollu þú sem rædur! enn gódvildar sed oss þinnar gjædum; augda dygdum, hamla hrigdum, hrind burt stygdum, bú oss bygd í hædum!

## No. 251.

Lagid: Lofid Gud, lofid hann hverr, sem kann.

Eitt nú er, útrunnid lífsins ár; lof sé þér, lífs Herra'og fadir klár! allt þig lofar endalaust, anda sem hrærir, vetur, sumar, vor og haust, vegsemd þér færir; hver dags sól, heill veita'og gledi, heims um ból, hvervetna rédi, líkn og skjól, ljúfur oss tédi, Gud, hvers mildi gofgum vér. :,: Tíd og eilífd heidri hann, hans kjærleik prísi. :,:

2. Greida ber, Gud! fyrir lidna tíd, þackir þér, þín geymdi' oss nádin blíd. Gud og Fadir vor þú varst, varnadir grandi, umsjón fyrir ölln barst, í voru landi; frjófsemd af, fylltir og gróda, enn létst haf, audlegd frambjóda, fridur gaf, oss farsæld góda, allt í settri ordu stód; :,: allt forsjónar auga þitt, áleit í mildi.:,:

3. Allir nú, enn fehum, Drottinn! þér, allt hvad þú, oss hefir gésid hér, önd, líkhama, audnu, lif, öll vor heimkynni, Gud, vort athvarf, hjálp og hlif! hönd geym oss þinni. Vel munt því, vor Gud! oss leida, björg á ný, bygdum til-reida, landi í, likn, heill útbreida, þér fulltreystum allir enn, :,: ad þú blessir árid nýtt, oss sem nú gésur.:,:

4. Utbreid þú, ó Drottinn! krapti med, traust og trú, til þín, ad fáum sjed, orda þinna ljóma ljós, leid villtum beina; dygd og vitska vort sé hrós, vegsemd in eina! géf oss frid, gódum ad halda; send oss lid, sitt hverjum gjalda; alla vid, ást, nád margfalda; af jörd' og hafi braudi' útbýt, :,: hvern med trú sín stunda störf, styrk, Gud! og blessa.:,:

5. Kóngs vors lönd, krýn farsæld, Drottinn kjær! þín sé hönd, þeim æ til verndar nær; Valdsmenn þeirra vitskir prýð, veit styrk af hædum, ad farsæla landa lýd, létta burt mædum! géf þeim fá, gledi þá kanna, ávöxt sjá, embættis aña, blessun, sá, um bygdir maña; hvers eins blessa stétt og stand, :,: eñ hvad bera ei orka má, adstodi fleiri. :,:

6. Géf oss nád, Gud! medan lifum hér, vort allt rád, vanda til dýrdar þér; oss í dygdum efli sú, afstýri follum, í Jesú bidjum nafni nú, neyd hrind af öllum. Íslands lýd, almáttug leidi, forsjón blíd; farsæld útbreidi, árs hver tíd, óhöpp hjá-sneydi. Gud! þig heidri gjörvöll lönd! :,: þig vegsami ár og öld, allur lífs skar-inn! :,:

## No. 252.

Lagid: Gædsku Guds vér prísum.

Þöck, gódi Gud! vér færum, med gledi-saungum þér, hátídar hljómi skjær-um, hugkátir tjáumst vér; heyr med vel-þócknun þú, Fadir! þad lof, er ljódum, lypt muñs og sálar hljódum, á nýu ári nú.

2. Þú gafst oss lands og lýda, ljúfañ, ó Herra! frid, og lagdir blessun blída,

bjargrædi sérhvert vid; þitt vaega vísdoms rád, oss hefir ætid leidda, og allra stigu greidda, med sødur mjúkri nád.

3. Þegar til þín oss snérum, þín miskun tók oss vid; af himni hressstir erum, huggun þú gafst og frid. Hugkjæti helgri med, þér bljúgir þackir ydjum, þig, Drottiñ! eñ tilbidjum, þitt prísum gædsku géd.

4. Gjor nú, o Gud! þad bidjum, géf oss blessun í ár, med oss í ollum ydjum, æ sé þín gædska klár, hvern blessa, hvers eins stand! lát vísdóm vaxa' og dygdir, vellsdan késji hrigdir, blessa Kóng, lýd og land!

## No. 253.

Med sínu lagi.

Rís upp, mín sál! ad nýu nú, nýa lofgjord uppbirja þú, því nú er nýtt ár komid, nýr skeinkur þér, nýgéfinn er, nýrunnid himna blómid.

2. Lof sé þér, Gud! fyrir lidid ár, lífs heillin mín oll í þér stár, o þú, miñ andar kraptur, sem vægdir mér, svo enn eg er, á nýtt ár kominn aptur.

3. Þú hefir verndad vedhlaup mitt, vel, svo eg gjæti hnossid hitt, á nú umlidnu ári, líkham og ønd, þín líknar hend, leiddi úr hættu' og fári.

4. Einn varstú traust og únun mín, ein mig verndadi gjæðskan þín, eg géck í geymslu þinni, hagsæld og ró, þín hønd mér bjó, og huggun sálu minni.

5. O! mín sálar heill hjartanlig, haldtú því sama fram vid mig, á ári inngángandi, handleidslan þín, sé hlífdin mín, vid háska'og øllu grandi.

6. Nýj miskun ári nýju á, nýja mér qveiki laungun hjá, þér einum þjona, hlýda; mitt kall og stétt, trúr rækja rett, vor þyggja', ef vilt, bid strída.

7. Þá æfi árum hallar hér, hjástod best, Fadir! vertú mér, géf endíng glada nauda; atbvarfid mitt, skal ordid þitt, eins í lífi, sem dauda.

8. Allt þad gott, sem mér unnir þú, almáttug hønd þín geymi nú, og blessi mig og mína, þitt andlit blídt, um árid nýtt, yfir mér láttú skína.

## No. 254.

Lagid: O Drottinn allsvaldandi!

Þøckum vér Gudi gladir, af gódu hjarta, hug'og trú, allir sem ihsafnadir, erum í Drottins húsi nú; hann oss gaf, líf og fénti, líknsemd af, hvad sem þénti, ei hann svaf, allt sá best er henti.

2. Vor Gud! hér veasemd tjáum, vard-veitslu þína fyrir og náð-framar en skyn-jad faum, forsjón þín hefir ad ofs gád; fyri hlíf, heilsu, gródur, hjálp vid kíf, næring, fódur, þér eillf, þock sé, Fadir gódur!

3. AE! fremur en þig bidjum, ofs réttú þína Fodur hønd, ad allt til lofs þér vd jvm, andi þin styrki vora ond; auk ofs dád, and-gast dygdum, um vort láð, varna syndum, í sorg ofs náð, send frá efri bygdum.

4. Lát hvern árs-daginn eina, æ kénna jafnan sért ofs med, og menn í ollu reyna, ad stjorn þín mild þá fær ásjed. Fadir! vér, forsjá þína, felum hér, líf, heimkynni, allt hjá þér, adstod, blessun finni!

## 2. Missiraskipti.

### a.) Vor-Sálmar.

### No. 255.

Lagid: Gædskurkasti grædari minn.

O Herra Gud! eg þacka þér, þú hefir hlíft og stjornad mér, á nú umlidnum vetri, háska og slysum varnad vid, veitt

blessun, næga hlífd og lid, mér og minni adsetri. Drottinn! Drottinn! eg kann eigi, út ad segja ástar anda, miskunar þinar mér til handa.

2. Samt hefi' eg syndgad mikid og miog, móti þér, hátign guddomlig! minn Gud! minnstú þess eigi, lát yfirgnæfa gædsku þín, gjordu enn framar vel til mín hvad eg efa aldreji. Drottinn! Drottinn! mín hefir gjætt og meinin bætt þín miskun ríka, unn mér hún fylgi' á eptir líka.

3. Missirid er nú umlidid, en bid nálæga tekur vid, því bid eg: Herra hýri! ad mig leidi þín hjálpar hond, bættulaust yfir mein og grond, og athofn allri stýri; Drottinn! Drottinn! ad ondu minni máttur þinn og mildi gjæti, líkhaminn somu lidsemd mæti.

4. Inngáng bædi og útgáng minn, á form og hegdun sérhvert sinn, farsæl þú Gud minn gódi! mér og minni svo stjórna stétt, ad standi' eg hana vel og rétt, í þínar forsjár flódi. Drottinn! Drottinn! leid þú mig um lucku stig frá lasta voda, vyrdstú mig ætíd í ollu stoda.

5. Allt hvad eg gjori og gjora læt, Gud minn blessadur! ad því gæt, svo farnist farsællega; reisur mínar ográda-

dag, rædu og tilstand nótt og dag, aňastú á.
alla vega. Drottinn! Drottiñ! leyf þú
ei eg lífs á vegi lostum siñi, mig fel eg
þér og mitt heimkynni.

6. Leid þú mig, Gud! þañ vissa veg,
sem vísa ord þín guddomleg, um alla æfi
mína, geym mín í sañri andrækne, géf þú
ad eg iñlæstur sé, í vernd og vöktun þína.
Drottiñ! Drottiñ! leyfdu mér, ad lifa
hja þér og lausnar degi, fagna, náð þína
svo mikla megi.

## No. 256.

Lagid: Gudi lof, skal end mín inna.

Vetur er enn á enda, eilíft lof sé þér,
Fadir kjær! þú létst ofs lækn henda,
og lagdir þad til, sem þurftum vær; þú
hefir oll vor efni, añast vid fári og naud,
verndad í voku og svefni, og veitt ofs dag-
legt braud; varnad voda og follum, vedra
og húngurs pín, afñýrt stór-slisum oll-
um, og stodad vel bornin þín.

2. Enginñ kañ yfirvega, alla blessun
sem veittir þú, andlega og stundlega, á
þessum lidna vetri nú; heilsu, lán heill,
bjargrædi, hofum enn þegid vér, margs-
háttar gagn og gædi, gafst þú ofs, Drott-

tíñ! hér, þú hlífdir háska' og grandi, héldst bygd og skéynum vid; þú veittir voru landi, verndun á alla hlid.

3. Packlæt's offrid býda, byggdú nú af oss aptur á mót, fyrir ást og ásjá blída, öll velferdli og nádar bót; svo fyrir Son þinn mæta, sendañ til Lausnar oss, þú létst hann borga' og bæta, brotin vor öll á kross; í honum allt hid góda, oss veittir, Drottiñ! þú, þér gjörum packir bjóda, þad er vort offur nú.

4. Hverr kañ ad tjá og tína, trúfesti þínar sérhvern vott? eda med ordum sýna, allt, sem landsbúum veittir gott? auga þitt ad oss gádi, eyra þitt heyrdi' oss vel, hondin þín hjálpa nádi, hýrt var þitt ástar þel. O þu, Drottiñ alvaldi! allt gott er létst í tje, hér og um allar aldir, æfinlegt lof þér sé!

## No. 257.

(Eptir gódann Vetur.)

Lagid: Kjær Jesú Kristi!

Guds gædsku prísa, geymar, høf og stord, lof hans auglýsa, lifandi mañ'a ord; himnañ'a hersveitir, Herrans votta

dád, allt gott eñ oss veittr, ástin hans og nád; merkin tída heutug hañ, hvaum lÿda setja vañ, vorum hlÿda kjørum kañ, kjæla'og solar bráð.

2. Oss eñ framleiddi, eitt um vetrar skeid. Gud og lífs greiddi, gángiñ heim í leid; vodanum afvendi, vedrin gjørdi hæg; leika lét í hendi, lífsins medol hæg, Gaf fárádum huggun hañ, hressing fjádur jafnan fañ, oss í nádum veitast vann, vegnan gégn og næg.

3. Med hverju má eg, miñ Gud! heidra þig? eckért til á eg, áttú sjálfur mig; þitt eg þér skal bjóda. þad er mín ond og líf, prís þiñ lystugt ljóda, lán hvert reyni' eda kíf. Offur greidi'eg þackar þér, þig tilbeidi: vertú mér, lífs um skeid, sem eptir er, unan, von og hlíf!

4. Ný nádar gædi, nýu sumri á, líf, føt og fædi, Fadir! vyrdstú ljá; gagn, sem gengid syndur, géfi'oss himiniñ, frami, heilsa, fridur, fylgi'oss út og iñ. Fénadar hjord ei fiñi naud, færi jordin ollu braud, lands umgjordin láti aud, ladast ad oss sinn.

5. O Jesú! á þér, oll mín grundast von, haf bústad hjá mér, heilagi Guds

Son! einkum lífs vid lokin, láttú anda þinn, þegar eg máttar þrotinn, þenkt' á dauda minn, huggun sedja hjartans þel, hugañ gledja deyds vid el, heim þá qvedja kann eg vel, og koma í himininn.

6. Þar síseld sæla, sem ei bregdast kañ, og líf indæla, æ vid leikur mañ; alla'án enda gledur, ástin Drottins heit, unun ædstri medur, í þeim dýrdar reit, eymda róli frelsud frá, fyrir stóli lambsins þá, hofud bóli himins á, heilog dvelur sveit.

## No. 258.

Lagid: Gudi lof skal end mín inna.

Lof sýngid, gofgid gladir, Gud vorn Skapara prísa her, sem med oss ser, sem Fadir, framleiddi jord og himna her, gofgid þann Gud, hvers haldist, grunnlausa hefir nád, frá eilífd og um aldir, allir hans miklum rád, vor-fognud blídt útbreidir, bod þitt, o Gud, vor Gud! þér lofajord, þock og heidur, því sýngur önd vor glod.

2. Voldugur, vís og gódur, veturiñ, Fadir! létst frammgá, her náttúrunnar hljodur, hvíld tók og sem í dvala lá, med vor-blóma blídum vakti, bendíng þín

hann til lífs, hýrt brosti og burthrakti, blíd sól þraut vetrar kífs, il-gjøfum enn útfleytir, ellum því gledi ljær, fjør hresságng, frjóssemd veitir, farsæld um bygdir grær.

3. Gud, allrar gjæðsku lindin, gledst enn náttúran øll vid bad, í daggar-dropum sendir, dýra frjóssemd hér ofan ad; strax blómi skógur skrýdist, skaut jardar ný-skéd læst, iñdælum urtum prýdist, engid er blómstrum glæst, lopt hlýtt, ylmur ágætur, øll lada til vor hnoss, vor gjæda' er, Gud! þín lætur, gjæðska útbýtast oss.

4. Um vøllu' og grænar grundir, gjæðsku þinnar berg-mála róm, ótal þúsund þúsundir, med þrá-samstillt um gledi hljóm; lof þitt um loptid dunar, lofa þig blómstur strád, fjall, laut og lækja buna, lof róma þiñi nád, hvert hljód fognudi fyllt er, fagrann æ sýngur prís, oss því ad þacka skyldt er, þína trygd, Gud alvís!

5. Ej skal þó túngan eina, algódi Fadir! prísa þig; hjartad lástum hreina, hefji med gladværd til þín sig! sífeldt skal vor ósk vera, med verkandi'ást og dygd, þér vora þøck ad færa, þjóna gladir med trygd, vér lífs tóm vort hér helgum, vor skal á-

stundan sú, ad lærum, fúsir fylgjum, Fadir! því skipar þú.

## No. 259.

Lagid: I Jesú nafni uppstá.

Nú upprann þín sumar-sól, vottur til um eilífd eigi, ad í minni grefeg þreyi, vor Gud! athvarf vert og skjol! úr þam vetrar fölum færir, fold þín alvold máttar-hönd, uppyngd sképnan hýr sig hrærir, um hafid, lopt og ilund lönd.

2. Gud! þín lindin gædskunný med ár-dögg feldu fredna kjætir, frjófum med gvöld-skúrum vætir, sólar vermda hollum hlý; tímar árs í ordn' er settir, enn nú skiptást, lof sé þér! þrant skammudægra hjós þitt léttir; líka af nordursbúum hér.

3. Þú upplýkur þinni hönd, gledur, blessar, ancægtum fyllir, giæda þinna'en barmq stillir, þeirra sképna', er þágu önd, þín af feiti' og frjóssemd drjúpa, fótspor þá í skýum gár, áslar undra afgruñ djúpa, opid hverri sképnu stár.

4. Lautin, breckan brosir hver, sád-gros, ótal urtir gróa, oss ad sedja'og gledja þróast, skógur bjorg og skjelid lér; i ótal lækjum ad oss strevmir, unadsemdum

náttúran, af þér fyllt, þá gledi geymir, gnótt, er tæmast aldrei kann.

5. Hverr siñst gódur, Gud! sem þú? trúfast, orlátt hvar er hjarta, á hverju Fodur-nafn eins skartar? vér undrumst þína ást og trú; án þín, Gud! vér glatast hljótum, glæpugt líf vort til þess vañ, vér þó lífs og nádar njótum, nægta, er mildi þín oss ann.

6. Ollum lýsir ljósid þitt; engañ vantar ástar gjædi, o! þín nád er vort lofqvædi, og þín vægd, sem oss lét fridt! Gud tilbidjid, gøfgid, qvedid, Guds nád príssid, vyrdid, meñ! hvad margt gott vor Gud oss tédi, gott hvad margt vill tjá oss eñ.

## No. 260.

Lagid: Gudi lof skal ønd mín inna.

Nú skal enn í Guds trausti, uppbirja nýann missira hríng, lífsins Hertogiñ hrausti, hafdú gát á oss allt um kríng. Nýa blessun, nýtt sumar, nú lát oss færa hér, hvad um lopt, haf, jørd sveimar, hlýda má, Drottinn! þér; lát nýa nádarstrauma, nýkomna frjófga tíd; vyrdstú vernda og geyma, veik-staddann Íslands lýd.

2. Géf þú oss farsæld góda, géfdu oss enn í landi vér, af jördu gras og groda, gagn sjáfarins og heilsu-kjör, blessun um hvadir allar, bjód andar, líkhamans, enn heillum oss tilfalla, ábúum þessa lands; svo gladir náum njota, næríngar lífs og ands, þá skal ej þockin þrjóta, þágu vors daglegs brauds.

3. Kóngsins tign stødug standi, styd þú, Drottinn! hans Ríkis-rád, fridurinn fordi grandi, forsjón þín blessi Jsa lád, vøld, kirkju, kristindominn, kénníng, trú, líf vort hér, eilífi lífsins ljóminn! leid allt til dýrdar þér; vorn inn-og út gáng bædi, øll verk og ferdalag, bygdir og øll bjarg-rædi, blessa þú nótt og dag.

4. Alla lands Yfir-herra, í þína fel-um verndar-hönd, eign og embætti þeirra, og alla menn um þessi lönd. Íslands vorn enn veri, þín voldug hjálpin sterk, oss svo hér enginn gjøri, áhlaup né skémdar-verk: þig ef menn vita vera, vorn skjøld á alla hlid, þá mun alls enginn þora, oss spretta fíngri vid.

4. Í stjórn og umsjá vorri, ytri og innri fridur sé, ytri í höndlun hverri, hinn gód samviskka láti í tje; en sá eilífi fridur, oss géfist himnum á; þín hjord, o Herra!

bidur, hana i náð lítá; vor heilf, athvarf og verja, vertú í landi hér; soo skal Sumarið birja, með sonnu trausti'á þér.

b) Haust-Sálmar.

No. 261.

Lagið: Gæðstkurskasti græðari minn.

O Guð heilagur, heilagur, heilagur Guð og Drottiñ vor, blessaður um aldir alda! Þér offra eg þakklætl nú, þig ákalla með bæn og trú, þér vil eg gott lof gjalda, Guð minn! Guð minn! skyldt er mér að þakka þér og þig að prísa; upp, upp minn saungur, Guðs ást að lýsa.

2 Lof sé þér heill og hjástoð mín, himnesk Guð! fyrir miskun þín, og veitta velgjörð alla; sem nú umliðna sumar tíð, sýnt hefir mér þín gjæðskan blíð. og lét mér allt vel falla. Guð miñ! Guð miñ! mig hefir leidt, og meinum eydt þín mildin ríka, bygð mína vardveitt og blessað líka.

3 Upplokiñ fañ þiñ ástar bruñ, eg og þitt náðar djúpt afgruñ, miñ Drottiñ! mér til handa, þaðan kom mér oll þorfin mín, því prísa eg nú gjæðsku þín, og vil þér vegsemd vanda. Guð miñ! Guð miñ!

allt hvad er, í aunnum mér, þér einum unni; lof þitt sé jafnan í mínum muñi.

4. Allañ mig, Drottiñ! offra'eg þér, á nú komanda vetri hér, og alla æfi mína, lát mig umflýa lasta verk, leidi mig jafnan hønd þín sterk, geym mín fyrir gjædsku þína. Gud miñ! Gud minn! hvar eg er, og hvert eg fer, og hvad eg gjøri, skil aldrei vid mig, hirdir hýri!

5. Allt þad, sem ecki þócknast þér, þad vyrdstú taka burt frá mér, vel svo þínum vilja hlýdi; en þad, sem þér er þægilegt, og þénar til þiñar dýrdar frekt, géf mér þad, Gud miñ blídi! Gud miñ! Gud miñ! verk mín øll, og vegnan høll, sem mál og minni, farsælist af þér útl' og inni.

6. O Herra! tak þad allt frá mér, er mér kañ snúa burt frá þér, svo ockur engiñ skilji, o Drottiñ! géf mér aptur þad, er mér kañ þér ad snúa ad, er þad mín ósk og vilji. Gud miñ! Gud miñ! vyrdst æ hér, ad vera med mér, miñ Herra hýri! eilíft lof sé þér, Drottiñ dýri!

## No. 262.

Lagid: Gudi lof skal end mín inna.

Lof sé þér, Drottiñ dýri! døgum og eldum stjórnar þú; há-sumar tímiñ hýri,

hann er skjádur á enda nú; o hvad ótal morg gjædi, oss gaf þín nádin blíd, líf, heilsu, fot og fædi, farsæla sumar tíd, trú klára' í kyrrd og fridi, kristindóms medol oll, þín hjálp vard hverjum ad lidi, svo hrepptum ei slísa soll.

2. Med mjog margfeldum gjædum, miskun þín krýndi sumars tíd, frjossemd af himna hædum, besir á jordu andnast lýd, land og sjór gagn og gróda, gésid hesir oss nú, áhlaupi illra þjoda, oss hesir fordad þú, yfir- og undir-stéttir, ósá þín milda hond, í þína umsjon settir, almennilegt tilstand.

3. Þér gjorum þackir færa, þýdi Fadir! af hug' og trú, lof þitt eblist og æra, vid allt þad, sem oss veittir þú; en hvad á hverjum degi, hofum strygat veldi þitt, miñ Gud! miñstú þessi eigi, misverkin oll géf qvitt, lát oss ei glæpa gjalda, géf heilog þeckjumst rád, Fadir! vid oss framhalda, fulltíngi vyrdst' og nád.

4. Herra! lof þér sé þýdi! þinn fyrir Son, er dó á kross; þú blessar lond og lýdi, læsing atviñu upplaukst oss: fyrir lif og luckn alla, líd, heilsu, vernd og fé, er þú létst oss tilfalla, ævinlega dýrd þér sé! svo skal sumarid enda, sýn oss þig nádugañ

og vyrdst oss veturinn senda, vægann og farsælann.

## No. 263.

Lagid: Rís upp, mín sál! ad nýu nú.

Sjá! blóminn sumars á burt er, íklædast vetrar búning' fer, náttúran, dinna dægra, og hretin hord, lífs lada hjord, leita ad skjóli þægra.

2. Sjá! vér medtókum sumri á, svo margfold gjædi' af landi' og sjá, bjuggumst vid lopts oblídu, bjuggumst vid þorf, vor bæa storf, budu ad verjast strídu.

3. Sjá! ad lifum og sérhvad gott, sem þegid hofum, gjædsku vott, þeckjum Drottins dásamann. Oss hættum af, hreif, blessun gaf, hann leiddi' oss alla saman.

4. O Gud! þig prísar sinni' og sál, sérhvad, sem bærir raust' og mál, og sképnu skarar snjollu; þér þackar allt, lán þúsundfaldt, þú sem vidheldur ollu.

5. Vertú vor hlíf, heill, unan oll, allt hvad lifir um dali' og fjoll, til þinnar mildi mænir; géf blessun, braud, burtvísa naud, og beli, sem ró oss rænir.

6. Æ lifa svo ad líki þér, léna oss styrk, svo fáum vér, folnadri foldu medur, ad hvílast vært, uns hróp þitt skjært, heimin til lífs uppqvedur.

## No. 264.

Lagid: Syrgjum vér ei sáluga brædur.

Holl náttúran enn fer ad deya, ilur horfinn, saungfuglar þegia, kulid skékur qvistu ber-snauda, qvetna stráin folnud mót dauda.

2. Híngad sol deprn horn auga vendir, hvert geislana blíd fyrri sendi, foldin styrdnar, fyrr sem réd gróa, felur skugg-inn ljós, jördu snjóar.

3. Enn lifir þo aldanna Fadir, ónm-breyttur, forsjá hans gladir, felum vér oss, fulltraust þad gétur, fridad enn og geymt hér í vetur.

4. Nockrum yndis nægtum þó svipti, náttúrunnar dauf hátta skipti, alvöld speki'og elska nærgætin, áqvardadi hvad sem oss mætir.

5. Veturinn er velgjörd frá Drottni, vakir hans forsjá, aldrei svo þroini, þad hverri til gagns er og goda, hans gædska mun sképnum bjóda.

6. Hañ baud vetrar-húmid oss færi, þær heillir, sem gledji og næri; Herr-ans nægtir hollar oss fæda, hann réd oss mót vetrinum klæda.

7. Foldar í skauti frednu hann lætur, felast qvikar urtanna rætur, uppfýngdar

þá út vetri hallar, í æsku-blóm nýtt lífsins hann kallar.

8. Þínum enginn þeckir af giørdum, þúsundasta partinn á jørdu, en af því stóra, sem vér þó sjáum, sanna hjartans ánægju fáum.

9. Fagnid! ord Guds fúsir ad geyma, Fadir ormanna kann oss ei gleyma, stíg hans boda gángid hug-gladir! Gud er sumar og vetur vor Fadir.

## No. 265.

Lagid: Gudi lof skal ønd mín inna.

Kominn er kaldur vetur, kom þú til med oss, Drottinn minn! líf vort, eign og adsetur, annist miskun og kraptur þinn. Oforum, íllum dauda, audstreymt, sorg og þrá, styrjaldar stórum voda, sturlun samvitsku frá, húngri, drepsótt, hallæri, hardindum, dýrri tíd, forda oss, Fadir kjæri! fylgi oss nád þín blíd.

2. Géfdú oss gódann vetur, géfdú oss hagstæd vedra-føll, géfdú oss gott adsetur, géfdú oss þarfa medol øll; annastú eckjur allar, og fødurlausann hvern, annast þá á þig kalla, aumstaddra sértú vørn, unn oss þitt ord ad læra, og synda fordast

vél, oss hjá þér nun að vera, nú oss að deya vel.

3. Blessa þú bygðir maña, blessuð velferli lát oss fá, blessuðu brauði saña, blessun Guðs orða nú oss ná; blessa vor brjóst og siñi, blessa vor verk og mál, blessa vor bæa kyñi, blessa þú líf og sál, blessa þiñ barna skara, blessa þú hús og meñ, blessa oss, vondu vara, veturiñ blessaðu' eñ.

4. Frá æðstum tignar troni, þín trúfost náð eñ gæti vor; þér hverr eiñ hlýðiñ þjóni, hönd þín oss leiði sérhvert spor; iñri og ytri friður, eining í hverri stétt, haldist oss einninn viður, og allskonar höndlan rétt; geym oss við glæpa-föllum, grandi, fári og neyð, síðan úr eymdum öllum, í eilífa dýrð innleið.

---

## c) Eptir gott og arðsamt Sumar.

## No. 266.

Lagið: Lofið Guð, lofið hann hverr, sem kann.

Hvor Guð! er nú jarðyrkjan hér, útenduð, allir því færum vér, þér vor Faðir! þökk og prís, þú oss blessaðir; stjornin þín er væg og vís, vér syngjum glaðir! frjófgun lands, fes sjen þín greiddi,

gagnsemd manns, góda tilreiddi, skepnunnr hans, skadsemd fráleiddi; lífs bjorg sofnud saman er. :,: Allt hvad hefur andardrátt, einn Gud vegsami. :,:

2. Sól þín skein, sannblíð um hvolfid blátt, kulda mein, kroptug, í hverri ætt, burttók hún, en himininn, blítt regn ofs færdi, breiddi jord út barminn sinn, blomleg gros nærdi; yrktum vér, ardsama reita, vonin hér, vorn gladdi sveita, Gudi ber, greida þock veita, starfid borgad vort er vel. :,: Allt hvad hefur anddrátt, einn Gud vegsami. :,:

3. Lof sé þér, launadir, Drottinn! þú, allt vort hér, ersidi' og mædu nú, ydni hjá þér ávallt fann, ást og nád kjæra, heill létst þú í hvern einn rann, himininn færa, vísst ert sá, verndarinn þjóda, sem villt ofs ljá, vætu, þurk, gróda, er þér hjá, upphaf alls góda; þér ber æra, þock og prís. :,: Allt hvad hefur andardrátt, einn þig vegsami. :,:

## No. 267.

Lagid: Í dag þá hátíd høldum vér.

Lof sé þér, hjartans hróp vort því, heyrdir þú, Fadir þjóda! starf vort borgar nú blíd á ný, blessan af jardar gróda, hvert

stráid, lauf og blómstur ber, berlega vitni' ad mikil er, Drottin! þín gjædskan goda. Vér þöckum þér, þig lofum vér!

2. Heilskap vorn blessad hefir vel, hönd þín ad þessu sinni, því syngjum lof med þacklátt þel, þad medtak af nád þinni; géf oss ferjálin' ad gjarnan hvørr, gáfur sem veitti nád þín er, a beslann hátt brúka kynni, og þacka þér, þig prísa hér.

3. Lát' vorar hendur bjóda brand, bjarg-þrota þurfa-mönnum, svo léttum undir ann'ra nand, med ást og kjærleik sönnum; þegar vér afgángs höfum hér, hugsa lát oss ad skyldugt er, bágstöddum bjarga greiñum; svo þöckum þér, þig prísum hér.

4. Lif medan varir lát oss hér, líkjast í kjærleik bræmum, í fögnud himna framar vér, fullkomnun hans þá reynum, þó kunnum nú þinn kjærleik sjá klárlegar skín hann himnum á: þér sé Gud! æra einum; vér þöckum þér, þig lofum vér!

## No. 268.

Lagid: Gædsku Guds vér prísum.

Vér þöckum þér, hinn godi! þig prísum vér, o Gud! ad þú af þínum sjódi, þar slegt oss veitir brand, oss geymir æ og

nú; allt það, sem fram þú færdir, forsjón þín ávalt nærdi; gódur vor Gud! ertú.

2. Land vort blessa, lífs Herra! legg fædu'á sérhvert bord! lát blessun þeim ei þverra, sem þitt vardveita ord! orbirgum adstod tjá; géf andgum gjafmildt sinni; géf einíng, svo menn kynni, síns njota' í fridi fá!

## d) Eptir bágt Sumar og í hardæri.

### No. 269.

Lagid: Jesús Kristur er vor Frelsari.

O Gud! sem rædur ollum gjædum, af jordu, votuum, sjo og hædum, þín hønd útbýtir, Herra kjær! hverskyns gáfum, sem þyggjum vær.

2. Allt vald þú, Drottinn! ætíd hefir, ollu, sem lifir, næríng, géfur, þegar upplýkur þinni hond, þá mettast allt hvad dregur ond.

3. Þegar útsendir þú þinn anda, þá nýast ásýnd jardar landa; en ef krapt dregur undan þinn, oss sparar jordin gróda sinn.

4. I sumar maraar sá og reyndi, sinn ørlæti nú ad leyndi, náttúran añars nógu rík, neyd er verdskuldud af oss slík.

5. Vér kjósum gjæda kjør, en sýnum, kaldsinni mikid gáfum þínum, o Gud! ressa því ei, sem ber, enginn fyrir þér saklaus er.

6. Séf oss ánægdu eñ med sinni, útblutun moti taka þinni, og óski svo vort andvarp stillt: æ verdi, Drottiñ! hvad þú vilt!

7. I hug til þinnar hjálpar stefnum, bagtær þú vorum litlu efnum; bjørg lífsins drýgi blessan þín, bjód, frá oss víki húngurs pín.

8. Blessa vort land og bæg frá mædnum bjod þú eiñiñ ad rík af gædum, opni náttúran oss sitt skaut, og vid hallæris fordi þraut.

9. Til þiñar, Drottiñ! mildi mænum, miskun þín bryggi' ad vorum bænum, veit þú oss hjálp mót voda' og neyd, vertu vor Gud í lífi' og deyd.

## No. 270.

Lagid: Kom hér, mín sál! og kynntu þér

Drottiñ kjær! hvad veitstú vel, vanqvædi gjorvøll mín! mér hjálpar æ

hvar helzt eg dvel, hjástod og gjædskan þýn, haldt mér stodugum vid þinn veg, víst þín af hjarta'ef leita eg, ró géfst, en rauniu dvín.

2. Mig þó heimsæki margföld naud, mædan ef ángra fer, þó daglegt hljoti'ad bresta braud, svo bañist naudþurft mér; rasfast þó ei min hugar hægd, hef eg allskonar gjæda nægd, því Drottinn líku mér ljer.

3. Haf því í skorti gladvært géd, grátin og hugsjúk önd! sinum þúsund litlum mat því med, mettadi Jesú hönd; Herrañ skérf þinum hefir ei gleymt, heldur þér nóg til vista geymt, þó úrrædi virdist vönd.

4. Hvad hañ þér gagna sjálfur sjer, sannlega muntú fá, heims nægta þó ei heppnist þér, herra bord vid ad stá, lát þér nægjast, í lægra sess, lífs uppheldis ad neyta þess, sem skamtar hönd hans há.

## No. 271.

Lagid: Gjædskurikasti grædari minn!

Pad er svo margt og mikils verdt, miñ Drottiñ! sem þú hefir gjört, mig vid um mína daga; allt var þad gott, eg þacka þér, þín forsjón mild útbýtti mér,

Því, sem best hér nam haga; Fadir! Fadir! veiti' lid mér, þad eptir er, og öllum líka, guddómur þinn og gædskan ríka.

## e) Eptir allgódar og ardsamar Vertidir.

### No. 272.

Lagid: Gudi lof skal ønd mín inna.

Frá þér, ljósanna Fadir! flýtur øll giøf, sem nefnist gód, vér sjáum vonar-gladir, þú veittir allt, sem hentar þjód, á þitt ørlæti mænir, allt hvad lífs hræríng ber, hæd, votn, laut, hálsar grænir, herma oss stórt þad er, hafid band heita skyldi, hirdsla audæfa þín, þadan þín midlar mildi, mørg gædi sképnum sín.

2. Þínu lífs eptir ordi, ad þeirrk hirdslu sofnumst vér, sem børn ad fødur bordi, blessunar þiñar leitum hér; eñ gaf þín ørlát mildi, oss þadan gódann plóg; hverr er, sem ecki skyldi, upphrópa: þú gafst nóg! dýrd sé þér, Gud! sem géfur, gott allt til sjós og lands; allt hvad andar-drátt hefur, ebli prís Skaparans.

3. Hverr kann þér, Herra! nægja, herma vegsemd og þackargjørd? þín safn-

ar forsjón fræga, sickum hafs, sem menn sánda-hjörð, midt í sjós ólgu öldum, vpnar sig hönd þín god, med gædum svo margföldum, mettir þú landsins þjód; því hættulegri heita, hér vor er sidis kjor, þess betur þrátt vorn sveita, þín borgar mildin or.

4. Lof þér, Gud! allir inni, allt má nefna þíns kjærleiks vott; lát oss nú líkjast þíni, líknsemd í því, ad gjora gott; géf oss med gáfum þínum, goda ánægd og frid, hallæri, háska, pínum, Herra! oss forda vid, géf ad vér lifum gladir, greid þú oss allt í dag, vér þinni forsjón, Fadir! felum oss nótt og dag.

## No. 273.

Lagid: Jesú Kristi! vér þockum þér.

Prísi Drottinn allt hvad er, öllu sem næring géfur; af brunni hassins bjorg oss lér, blessad enn land vort hefir! o Gud! hvad værum vér án þín? vyrdst oss framvegis gledja, med þinni líkn; uns líf vort dvín, lands heillum gódum fedja. Lát oss aunk ad gjora gott, gjof þína svo rétt brúkum; þacklætis sýnum þar med vott, ad þurfamanns tár afstrjúk-

num. Drottinn! þér einum dýrdin ber; vér þöckum þér, þig lofum vér!

---

## f) Eptir bágar Vertidir og í Fiskileysi.

### No. 274.

Lagid: Hverr, sem ad reisir hæga bygd.

Gud! þinni stjórnun hæfir hrós, í hrigdunni, skorti, mædum, þín hefir hondin líknar ljós, lykil ad ollum gædum; nær þeim upplýkur lætur lýd, luckusæld hrepp. á hverri tíd, af hafi, jord og hædum.

2. En ef þú lykur aptur þá, orbirgdin viss er líka, líss næring hverfur landi frá, læsist hafs skautid ríka; nálgast þá húngurs neydin sár, nú hefir margur þetta ár, mátt reyna mædu slíka.

3. Féstjód siñ hafid furdu tregt, féck oss, vér megum klága: líkhams ad lúd er fjørid frekt, forgéfins marga daga; en verdi Drottinn! vilji þiñ, veitstú hvad þínum hvert eitt siñ, bornunum helzt kañ haga.

4. Vér moglum ecki móti þér, miklu heldur oss fleygjum, í þiñ forsjónar fadminn hér, felum oss þér og segjum: æ Fad-

ir! mikla mildin þín, miskuni oss og fordíð þín, vongódir vér svo þreyum.

5. Pad oss ei lídi þánka úr, ef þykir atvinnu bresta, ad skinid fylgir eptir skúr, og skort opt nægtin mesta; þú hefir allt í þinni hönd, þér selum bædi líf og önd, neyd bætti nád þín besta!

## 3. Morgun-Sálmar.

### No. 275.

Lagid: Pér þackir gjerum.

Ljómar ljós dagur, lífs kjætist hagur; sjá! ljós sveit vekur, sól nótt burthrekur; enn Fodur alda, eilífum gjalda, þöck skal þrefalda.

2. Lof hátt skal hljóma, hjálp og nád róma, Guds geymslu bestu, gædsku nægd mestu; þolgódir þreyum, þar til burtdeyum, synd hatur segjum

3. Vort kall vel rækjum, vort gagn rétt sækjum, óttumst Gud eina, elskum dygd hreina, sátt og samlyndi, sem er lífs yndi, bæn og blídlyndi.

4. Verum vongódir, vel þolinmódir, þrautir af þreyum, þó hér stríd hejum,

ÿst Drottinn sefur, sinni náð hefir, heit- íð, hjálp gefur.

5. Mitt líf, minn andi, mín raust syngjandi, o Gud upphæða! um þinn prís ræda, vel sé við tamin; vegsemd skal samin, þér og þock, Amen!

## No. 276.

Lagið: Gæðskuríkasti Græðari minn!

Med fridi nóttin fráleid svort, fyri mér aptur sólin bjort, lýsir og gladt mig gétur, í mætti'og gædsku mikill þú, með krapti þínum, Gud! eñ nú, oss tíd og tak- mork setur; dýrd ber, því þér, vernd og náð og vitskn dád, mér vyrdstu senda, hvern dag í blessun hér birja'og enda.

2. Í svefni Gud mín vornin var, eg vissi' ei af mér sjálfum par, og háskañ ei adgætti; en móti hverskyns hættu' og pín, Herrann var sjálfur verndin mín, hans forsjón fár upprætti, krapt med gladt géd, nýjann gésid hañ nú hefir heilsu miñi; o Gud! eg treysti umsjón þinni.

3. Í nafni Jesú ángurs frí, eg birja þenna dagiñ því, hann verdur mér hag- stædur; Guds vilja ef ad eins eg añ, allt mér til góda leidir hann, lísi og luckurǽd-

sér dapur í burt úr hendi, vér skulum út, en grefin er gjör, þar géfst ei annar endi.

2 Gud géfi þad svo þjónum vér, í þessari verøld inni, ad Guds Son med trúnni taki hverr, svo traustlega miskun finni; þá heimurinn frá oss hallar sér, hjálp Guds aldrei linni.

3. Nær førum vér í vort Fødurland, og úr fárinu skulum venda, géf eg mína sálu Gudi' í hand, í gledi himnaríkis senda. Gud Fadir, Guds Son, Guds heilagur Andi, géfi' oss gódann lífs enda!

Lof sé Gudi! vor lausn er gjørd. (sjá Nó. 92, 2ad, 4da og 5ta vers.)

## No. 330.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Andleganu styrk mér auktú þá, o Gud! nær verøld skilst eg frá, svo géd=rór mína géfi' eg ønd, gódi Fadir! í þína hønd; hørmum mínum í huggun snú, og himninum fyrir mér uppljúk þú!



Vid-

# Vidbætir.

## I. Lofgjördar- og Packlætis-Sálmar.

### No. 331. (1.)

Lagid: Rís upp, mín sál! ad nýu nú.

Eilísi Gud! þín gædsku gnótt, gjørvallra minna daga nótt, upplýsti nád einskjærri, svo leidin þraung ei þokti laung, þjáníngum fetud nærri.

2 Fyrir þá elsku, Fadir vor! fœrum þér vid hvert æfi-spor, þackir í þessum heimi, en sídarmeir, þann aldrej deyr, eilífdin prís þér geymi.

3 Þér einum selum alla oss! þinn einka Son, er leid á kross, vort dæmi, von, ágæti, sé þar til vér, sønnum hjá þér, sorg ad breytist í kjæti.

### No. 332. (2.)

Lagid: I Babylon. vid votnin straung.

Þig losi allur engla her, alheimis vernd-arinn blídi! þig losi kristin þjódin hver, þér allt hvad skaptir hlýdi! þig losi allt hvad lofa má, er líf og tilveru' af

þér náñi fá, um þitt alveldið víða! útbreidist lof þitt alla tíð, eilíf guddómsins hátign blíð, af túngum allra lýða.

---

## II. Endurlausn vegna Jesú.

### No. 333. (3.)

Lagið: Guðs Son kallar: komið til mín.

Jesús Kristur vor vinur er, vinfengi hans fulltreystum vér, samvitsku'er ógnun eydir; flýum því gladir fund hans á, er frelsa nádi' oss qvölum frá, og til lífs eilífs leidir.

2 Af elsku til vor ofan frá, Guðs einka Son steig jörðu á, og madur verða vildi; o þann fögnuð, sem fáum vér! Frelsari vor hann ordinn er; prísum hans miklu mildi.

3 Guðs einka Son er vinur vor, vér ef hans fetum dygda-spor, í huggun hrigðin breytist; óttast ei þurfum deyð né dóm, Drottins ef þeckjumst náðarróm, oss þá hans vingan veitist.

4 Vinur trúfastur vor er hann, er vill oss hjálpa og líka kann, ef hörmúng á vill strída; synd-þjáðir flýum fljótt til

hans fullkomna meina grædarans, sem andar svipti' oss qvída.

5 Oss yfirgéfid aldrei fær, undir hans vernd framgaungum vær, ef brosum, hann oss stydur; hverr honum treystir, sæll er sá, sífeldt hans gánga vegum á, um adstod bljúgur bidur.

6. Vor ástvin, Jesú! þackir þér, þín-ir frelsudu gjøldum vér, sem von oss veittir blída, þínum fagnadar fundi ná, fullsælum gledjast Drottni hjá, í flock útvaldra lýda.

## No. 334. (4.)

Lagid: Heidrum vér Gud af huga' og sál'.

O hvílík heill! ad þeckjum þann, þjóda gjorvallra Frelsarann, Jesúm, sem lífid ljet á kross, ljúfur til frelsis øllum oss. O! þá brennheitu elsku hans, er vildi hann dauda syndarans, en til far-sældar leiddi lands.

2. Sælar má kalla þjódir þær, þig sáu'og heyrdu, Jesú kjær! medan í heimi hafdir dvøl; hvers þó oss hér ei géfist vol, þig munum gladir sídar sjá, samarf-ar þínir verda þá, í helgra bústad himn-um á.

3. Sanna huggun og sælu von, sjálfur hefir oss veitt, Guds Son! endurlífgadir ad hjá þér, ellífrar gledi njotum vér. Sú eptir þreyda sæla' og huoss, sífeldt upplífgi hvern af oss, þegar adkémur þraut og kross.

4. Til himins först á undan oss, eptir útstadinn deyd á kross, eins munum eptir endíng kífs, endurvakna til betra lífs, í þinn ríki' odlast þá, æru og dýrd þér sjálfum hjá; hvad þá vid jafnast huggun má?

5. Á þig trúum og vonum vær, oss veitka styrk þú Jesú kjær, þér svo ad aldrei föllum frá, freistíngar þó oss leiti á. Þú heyrir æ vort harma qvein, hjálpar og grædir andar mein; sú er vor líkn og sælan ein.

---

## III. Sannur Krístinndómur.

### No. 335. (5.)

Lagid: Sá frjáls vid lögmál fæddur er.

Allt gott kémur frá einum þér, ástríkur manna Fadir! af þér hins besta væntum vér, í von loks deyum gladir.

2. Helgist þér æ vort hjarta og mál, svo hötum ræðu ljóta, vísdómsfull orð þín vora sál', veki til yfirbóta.

3. Andar gagn vort og annara með, orðræður vorar stoði; þolið og hógværi géf oss géð, glæpa svo firrist voði.

4. Herra! þegar að þúngann kross, þú vilt oss bera láta, vísi hann að gæðu verður oss, von sú oss gjöri káta.

5. Ef að trúlyndir elskum þig, andar mein kunna' ei granda; voði og neyð þó sýni sig, senda munt náð þíns anda.

6. Hvað sem oss mætir heims um bygð, hug-glaðir vér því tökum; mýk oss gjörvalla mæðu' og hrigð, mæddir þá til þín qvökum.

7. Verdi oss, Faðir! vild þín á, vantrú og efa forða, óþolinmæði' oss flýi frá, fyrir krapt þinna orða.

8. Samvitsku ró og sálar frið, sælum géf oss að halda; einnig meðbræður vora við, varast tvídrægni kalda.

9. Svo sem að fjöldann synda brátt, sjálfur oss fyrigéfur, eins géf framvegis yðkum sátt, við alla sem skyldan krefur.

10. Audlegð ef fellur oss í skaut, elskurikt veit oss sini, að aumra léttum undir þraut, eptir tilætlun þinni.

11. Ef fáum neyd og örbirgd reynt, eptir rádstöfun þinni, trú og helgædi ljóst og leynt, lát oss votta hvert sinni.

12. Athafnir vorar allar hér, ætíd géf oss ad vanda; svo ydjum þad, sem þócknast þér, þinn send oss styrk til handa.

13. Hóf og ydju, sem hentar best, hreinskilni' og dygdir allar, oss kristinum géf ad ydka mest, uns daudinn hédan kallar.

14. Lát oss svo, Drottinn! lifad fá, lastvara medan hrejum, ad sæla vis þér sjálfum hjá, sé oss þá hédan deyum.

## No. 336. (6.)

Lagid: Kom, Skapari heilagi Andi.

Nú, sem bid góda elskar eitt, enn þótt ad veikum finnist hjá! án þín eg megna ecki neitt, allur minn kraptur þér er frá.

2. Breiskleik minn, Drottinn! þeckir þú, þín nád og styrkur efli mig, á þínum kjærleik kroptug trú, kénna skal mér ad elska þig.

3. Lát elsku þá minn hneigja hug, ad helga líf mitt einum þér; þín linkind æ mér ljeni dug, lastvorum hegda mér, sem ber.

4. Géf þú mér skyn, að dygð og dáð, dýrmætast hnoss í veröld er, að sá, sem vandar allt sitt ráð, öruggur sérhverri mótgáng ber.

5. Að fullgjörð dygð ei finnast kann, föstum grundvelli stofnuð á, nema sker trú á Skaparann, skíni guðræknn sinni hjá.

6. Þú, sem einn verkar veikum í, að vilja' og gjöra það, sem ber; styrk þú minn veika þróttinn því, frá þér minn allur kraptur er.

## No. 337. (7.)

Lagið: Kristnir menn! umfram allar tíðir.

Eilífi Guð vor allra Faðir! einn ertú góður, mikill, vís; af undrum þinnar gæðsku glaðir, gjöldum vér þér af hjarta prís; þig að dýrka mjög inndælt er, um gæðsku þína syngjum vér.

2. Hverr, sem ástgjafir þínar þeckir, og þær rétt vorða skyn á ber, því skyldi hann þig elska ecki, af elsku leiddur hlýðnast þér, á gæðsku þinni efalaust, æ grunda sína von og traust!

3. Að Jesúm Krist, þinn Son, oss sendir, sérlega krefur þöck af oss, hann þig, sem Föður, þeckja kénndi, þoldi vor

vegna deyd á kross, lærdómi bædi og lifnad' med, liós og farsæld útbreida réd.

4. Fyrst Gud oss þannig elskar alla, og eblir heillir sérhvers manns, látum oss, brædur! léttbært falla, ad líkjast dæmi Skaparans, ástsemi, dug og elsku med, ástundum dygd og frómlyndt géd.

5. Kiærleiks Gud! oss sem kallad hefir, Krists rikis til af þinni nád, og öllum jafnan gott allt géfur, æ! géf oss bædi vilja' og dád, ad lífs til enda þjónum þér, sem þínum börnum verdugt er.

## No. 338. (8.)

Lagid: Allt eins og blómstrid eina.

Hjálpa mér, Herra blídi! af hjarta géd-jast þér, og svo gégn öllu strídi, ord þitt sem bannar mér; verk rádvönd æ ad ydja, adstoda vyrdstú mig, med þeim svo ber tilbidja, og bestaun dýrka þig.

2. Géf, Fadir! krapt eg kunni, késja girnd vonda' í mér, rádvendni æ svo unni, og finni nád hjá þér! afvega lát ei leida, lost mig, né glæpa her, ei spott né ótta neyda, ótrúr ad reynast þér.

3. Bod þín mér blessud vísi, braut réttta lífsins á, hana mig feta fýsi, far-

sæld eilífri ná; styrk mig ad vilja vinna, verkin skyldu med trú, og ædsta unun finna, er dygdum heitir þú.

4. Géf þú mér gódfúst hjarta, gagnast øllum sem best, aumka þann qvøl um qvartar, kjætast samheillum mest; ljúfum svo Jesú líkist, lund kjærleiksfullri med, farsæld þíns fridar ríkis, fæ og þá gladur sjed.

5. Géf ad eg rétt ígrundi; gódur ad ert og vís, audna mín allar stundir, af þér ad gjørvøll rís. Po sorg umhverfis hljómi, hardar ef raunir þjá, í lífi, deyd og dómi, Drottinn! þig treysti'eg á.

## No. 339. (9.)

Lagid: Kom, Skapari heilagi Andi!

Drottinn! ástunda dygdir mér, daglega géf og bodord þín; þú til ens góda þróttinn ljer, þad veri besta huggun mín!

2. Víki eg þínum vegum frá, vyrdst þú í náð ad benda mér; fyrirgéf breiskum, Fadir! þá, framvegis géf eg hlýdnist þér.

3. Ast þín fødurleg ætíd mig, upphvørfa skal ad stunda dád; vongódur kémi eg þá fyri þig, þegar eg allt mitt vanda ráð.

4. Því ef eg dygða prædi stig, þol. góður freisting yfirvinn; góð meðvitund þá gleður mig, Guð! hún er sælu pantur minn.

## No. 340. (10.)

Lagið: Adams barn! synd þín svo var stór.

O Herra Guð! þér heiður ber, með hjartans gleði og lotníng vér, til þín nú bánka rennum, dásamlegur í ollu ert, allt hefir mjög vel til vor gért, þacklátir það meðkénnum, æ! lof, tilbeiðsla, ást og dýrð, eilíf Faðir sé þér skírð, Foður náð fyrir þína, sem einka reyndist verndin vor, velferðar til hvert greiddi spor, því ber oss þöck auðsýna.

2. Fyrir vort lífið þöck sé þér, þín lofsverð náðar gjöf sem er, og það af miskun þinni, heldur því við og hjúkrar að, Herra! en einkum fyrir það, ber oss með bljúgu sinni, þér þacka blessað þitt hjálpráð, að þú hefir af Foður-náð, kristna menn þar til kallað, þig réttañ Foður þeckja vorn, þín verða farsæl óska-born, nú og um eilífð alla.

3. O! hvílík huggun er oss það, ega þvílíkann Foður að, voldugann, vísann, góðann! sáfróðir, breiskir, veikir vér,

vinna fátt skynjum, sem oss ber, má oss því margt ofbjóða; svo er og varið vorum hag, að vísst er fjortjón nótt sem dag, samt þurfum sýst að qvíða, ef — eins og hlýdnum bornum ber — með breytni góðri stundum vér, að þócknást þér og hlýða.

4. O Fadir! láttu elsku þá, sem öllum heimi vyrdist tjá, upphvatning æ oss vera, hreinskilni stunda hjartans mest, og hegdun alla vanda best, í þínni augsýn, Herra! að vér framgaungum ætíð hér, eins og rádvöndum kristnum ber, og stundum mest sem megum, þinn líking og þóckann ná, þúsundfold nádar gædi þá, vís vér í vonum egum.

## IV. Trúrækni.

### No. 341. (11.)

Lagið: Allir Guds þjónar! athugið.

Hellagur Fadir himnum á! Hofundar trúarinnar, þitt voldugt ord oss vísar á, veg sáluhjálparinnar, lát oss trú rétta rækja hér, í ríki þínu svo að vér, þig sælir fáum finna.

2. Vertú, Jesú! vort lífsins ljós, leið oss á veginn sanna, unaðsemd vor og æðsta hrós, æ sért hjálparinn manna; sá traustið á þig setur fast, sízt mun um eilífð fortapast, hreppir *sæld himin-ranna.

3. Vor trú sé bygð, sem vera ber, vísdóms á orðum þínum, til enda lífsins allir vér, ávöxt verðugann sýnum; en nær vér rösum, Herra! hér, hjálp oss að ecki föllum vér, né síðar sælu týnum.

4. Bráðadann sundurbrjót ei reir, blis trúar endurnærðu, ydrandi sálna andvorp heyr, andans þeim huggun færðu; géf að þér aldrei föllum frá, freisting er sækir megn oss á, send þú líkn hjarta særðu.

5. O Drottinn! sem að oss í hjá, uppbyrjað trúna hefir, ebl hana svo að ödlumst, þá oss dauði, gröf umvefur, endalok trúar, eilíft líf, hvar eptir heimsins mæðu' og kíf, fagnaðar gnótt þú géfur.

## No. 342. (12.)

Lagið: Kristnir menn! umfram allar tíðir.

Hín sjást, o Guð! um veröld víða, vísdóms, almættis, gæðsku spor, jörð, himin, árin ódt sem líða, allt hrópar

* far-

mikill Guð er vor! hverful umbreyting innir bert: óbreytanlegur Guð að sért.

2. Gjörvöll náttúran þannig bylur, þér dýrðar lofsaung ósjálfráð; mín sála gjædd með skynsemd skilur, þitt skipar öllu vísdóms ráð, og með trú, sem þinn Andi ljer, upp til þín, Drottinn! lypt-ir sér.

3. Hvað er eg þess, að þort' eg senda, til þín, Alvaldi! huga minn, þú, sem ert, verður, varst án enda, Vera heilög og fullkomin? Þinn helgur Andi hjarta í, hreinskilnu býr, eg treysti því.

4. O! hvað þú mönnum öllum hefir, auðsýnt föðurleg kjærleiks hót, með Anda þínum oss þú géfur, athvarf til þín af hjartans rót. Það sonar-traust vér fengum fyrst, fyrir þinn Son, vorn Jesúm Krist.

5. O! hvað veikann það hressir huga, að hefja klöckva sál til þín; eckert mótlæti mig kann buga, meðan eg veit þú gætir mín; allt skapað birtir almátt þinn, allstaðar eg þinn kjærleik finn.

6. Nú sje jeg glöggt þín guðdóms merki, gæðsku, almætti, vísdóm þinn; hvert eg er einn, í værd eða verki, veit

eg ad þú ert Fadir minn. Fadir! í þína fødur-hønd, fel eg øruggur líf og ønd.

7. Þad er sú trú, sem hér í heimi, himininn opinn sýnir oss, þad traust, o Drottinn! géf eg geymi, gudrækni med, sem besta hnoss! vid enda lífs mín viss er trú, vid mér, sem Fadir, tekur þú.

---

## V. Elska og Traust til Guds.

### No. 343. (13.)

Lagid: Sólin upprunnin er.

Hvad eru vinir, vøld, vit, fjør og hreysti? hvad lífsins heilla fjøld? hann þeim lítt treysti, vel sem ad veit: veifast allt burt, sem reykur, mótlætis mirk vid el; mind skugga' eg horfna tel, þá ljós um leikur.

2. Hví treystum veikir vér, vølt á heims gædi? glis stundlegt ekkert er, ánægju sædi, ókomins lífs, unadar blóm, sem géfur, fyrst þad hér bøl opt býr, í beiskju linn snýr, grøf yndi grefur.

3. Vor, sem hér æfast á, í reynslu standi, skilinn lífs skóla frá, skynsamur andi, fyrir víst veit, valt er gjørvallt í

heimi, en ædri ørugt huoss, ánægju lifs ad oss, Gud mildur geymir.

4. Sannfæring sifeld mann, sú á skal minna, lifs yndi hér ad hann, hvikult mun finna; honum ad er, hér ætlud stundar vera, hann því vær sorg hér sá samferdast gledi má, rór bádar bera.

5. O Drottinn! einum þér, óhult eg treysti; géf aldrei grandi mér, glis heims né freisti; brøgd vjela vond, velferd ei raski minni; legg mér æ likn í neyd, létt hrigd, ad sæll vid deyd, eg føgnud finni.

## No. 344. (14.)

Lagid: Herra! Þér skal heidur og lotning gr.

Gud, sem allri gjæsu rædur minni, géf eg ætíd treysti forsjá þinni; viljt þinn æ veri minn og veit hvert sinni, unun í því finni.

2. Allt þín speki, elska, máttur leidir, øllum miskun sképnum þínum greidir; hví skal klaga hót um daga? Herrann lagar, gæfu lifs um leidir.

3. Mitt frá eilífd skapad hlutfall hefir, hvad sem býdur þú, mig frid' umvef-

ur. Lán og mædu, matst þú bædi, mér hjálprædi, Gud í øllu géfur.

4. Líki þér svo, lát mér eckért granda, legg ánægju daga mér til handa; en ef vinna velferd minni vjel, eg finni, hjá þér huggun anda.

5. Þín nád baud oss jardar gledji gædi, gædskan allteins skóp oss lífs vangvædi; sjálfs ef eigi sok mig beygir, sáttur þrey'eg; þú ljer þolinmædi.

6. Missi'eg heill, sem mildin þín gaf blída, mótgáng þú ef vilt eg skuli lída; þá eg beidi, úr þoli neydar, best munt greida, bót ei láta bída.

7. Mun brádt þrotid máské fjørid æda; mildi Gud! þitt verdi bed! því hæda, sé víst valin víss mér talin — sú von er alin — hví má hel mig hræda?

## No. 345. (15.)

Lagid: O Drottinn allsvaldandi!

Einn dagur ødrum tjáir, allir megum vér sanna þad, hverr sem þess gjætinn gáir, og gjørvallri hyggur skopun ad, mikill er, og mildur Drottinn, mønnum tjer, gjædsku vottinn, gjæda hver, gnótt er þadan sprottinn,

2. Umbreytist allt í heimi, óbreytanlegur hann þó er, í øllu lífs andstreymi, ætíd honum því treysta ber. Nádargnótt, næga géfur, nýhann þrótt, veitt oss hefir, dag eg nótt, Drottinn nád umvefur.

3. Honum af hjarta treystum, hann er vor einka líkn í neyd, oss sínum endurleystum, eins mun hann verda líf í deyd, síst oss má, sækja mæda, sældir þá, dýrdar hæda, honum hjá, hljótum ædstu gæda.

4. Framvegis, Fadir blídi! fullfíngi þínu treystum mest, í luckuʼ og ángurs strídi, oss þín miskunin líkni best; um eckert þá, annad hirdum, enn þig sjá, mest þad vyrdum, og himnum á, hjá þér búaʼ í kyrrdum.

5. Trúlyndum heitid hefir, hjálpræd oss mønnum øllum tjá, farsældar gnóttir géfur, Gud vor! þitt ord ei bregdast má. Sælu þú, þínum géldur, hjónʼt er trú, stødugt heldur; hugsan sú, huggun ædstu veldur.

No. 346. (16.)

Lagid: Kristnir menn! umfram allar tídir.

Trúfasti Gud! eg til þín kalla, titrandi beygist fyrir þér, og bid um

miskunn æfi alla, aldrei að gleyma vilsir mér; eg veit þú heyrir andvarp mín, og sendir hjálp af gjæðsku þín.

2. Öll mín þegjandi andvarp þeckir, og tár mín sjer þú leyndum í, mér hjálpar best nær aðrir ecki, og harðt umspennir neyðin því; þegar mér veiklast von þú sjer, vyrðst þá huggun að senda mér.

3. Þó að eg eigi þecki tíðum, þína alvísu stjórn á mér, athvarfs samt leita' í eymðum stríðum, einúngis skal, minn Guð! hjá þér; veikur lítt standast við eg má, vel lát mig stríða' og sigur fá.

4. Á þér trúnaðar-traustið festa, tryggvi leiðtogi! veittu mér, hvert sældin eða sorgin mesta, frá sjálfum þér að höndum ber. Dagfar mitt prýða dygðum géf, Drottinn! á meðan hér eg tef.

5. Fagnandi þá eg fús meðkéni, foður-ást þína sældum í, eins þó mótlæti mig umspenni, mun eg rólegur taka því; géf aldrei skiljist eg við þig, æ, góði Faðir! bænheyr mig!

## No. 347. (17.)

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Á Guð eg treysti einann þig! ástríkur jafnan leiðir mig; eg gleðst af Föð-

ar-umsjón þín,' eg veit í náð þú sjer til mín,'ond minni rósemd eykur það, ángist og neyð þá þreyngir að.

2. Hverr himna Drottinn ástvin á, éqvíðinn lífs-veg gengur sá; ei sturlast hann þó eymdin hørd, að honum kreppi hér á jørð; senn veit hann reynslan útt er, endast með henni neydin hver.

3. Lidsemd veit mér, minn gódi Gud! að geymi'og stundi vel þín bod; að setja megi trú og traust, til þín hug-gladur efalaust, uns sælann himna fæ eg frid, og fagna þína miskun vid.

4. Forsjónar vegi fæ eg þá, Fadir! þína med undrun sjá; þú andar-gagn dýrt mattir mitt, miklist um aldir nafnid þitt! því vís og gódur æ þú ert, athvarfid vort í raunum sért.

## No. 348. (18.)

Lagid; Um daudann géf þú, Drottinn! mér.

Allt hvad tilvern af þér hlaut, alheims verndarinn gódi! orlætis þíns og nægta naut, af nádar dýrstum sjódi; oss mennunum þó allra mest, auglýsir gædsku merkin flest; því er skyldt þøck hverr bjódi.

2. Vort þú oss daglegt veitir brauð, vísdóms og gæðsku Faðir! aðstoðar best í allri nauð, á þig vér treystum glaðir, og þó hjálp frestir enn um hríð, á þér géð-feldri munum tíð, frelsinu fagna hraðir.

3. Mest er þó jafnan miskun þín, menn þegar neyðin særir, huggun í sorgum, hjálp í pín, harmþrúngna gleði nærir; þegar aðkémur kaldur deyð, qvíða þurf-um vér engri neyð, frelsi og líf hann færir.

4. Í lífi, deyð og dómsins tíð, Drott-inn! oss náð þín gleður; þér sé um aldir þeckin blíð, þér mannkyn-lofgjörð qveð-ur, að þegar hérvist endast á, í himna hýrð þér sjálfum hjá, sælu eilífri seður.

## No. 349. (19.)

Lagið: Heimili vort og húsin med.

Guð þig að elska góði minn! gagn er mitt bæði' og skylda, auð heims mót því og upphefð sinn, alls eckert mega gylda; sannarleg elskan sjálfur ert, sérhver þín skipan vottar bert, miskunar géð þitt milda.

2. En girndir tíðum ginna mig, og gjöra skynsemd blinda, veraldar glis á villu-stig, vill tæla mig og binda, hégóm-

ann vid, en hversu þá, heilagi Guð! eg líta má, svívyrðu minna synda?

3. Drvæuta skal eg ecki þó, en þinnar náðar bída, flýa til hans, sem frið mér bjó, fyrir mig deyd nam lída, hann þá fullvissu veitti mér, að væri'eg dýrmætur fyrir þér, Jesús Lausnarinn lýða.

4. Jeg veit að komstú, Jesú minn! á jörð að Drottins ráði, matur og dryckur það var þinn, að þíns Föðurs vilja gáðir; sús deyðir krossins festur á, sæ eg af þessu gladur sjá, að heitt oss elska náðir:

5. Elsku Guðs finn eg allteins hér, að Son sinn gaf oss kjæra, elsku til hans því öllum ber, til enda lífs að næra. Að eilífu skal eg elska hañ, útvöldum með í dýrðar rañ; honum ber eilíf æra.

---

## VI. Ráðvendni.

---

**No. 350. (20.)**

Lagið: O Faðir himneski'og eilífi Guð!

Tíð og líf gégnum eg fagnandi fer; frjáls skunda vegferð, sem ætlud er mér; skérdir ei elli né áratal par, auðuu, sem hjartanu skenkt var.

2. Meðvitund rósem að réttvísi, dygð, rækt þar æ finna og velja sér bygð. Frið minn og eillísañ fögnuð ei ná, sorlög að trubla, né tíð má.

3. Þú, sæla rósemd í minni sál! mér, morgna þá sól roðar, heilsa blídt fer, ervidið blessar heill, ánægju með, og svæfir þreyttann í nótt-beð.

4. Himnaña Guðs til því hugur minn rís, heit viñur einlæg við bænir og prísgæðskunnar boðorð að geyma, mér lið, Guð bið eg senda, og tilbið.

5. Sjái eg mæðunnar son líða neyð, forgumum blæðinn og þjáðann, en greið, hjálp mín hann frelsar, þá inndæl hans er, auga og hjarta glöð þökk mér.

6. O! hversu inndæl minn ánægja barm, innteknr, hugsi'eg: nú sefa'eg hans harm! áður enn hjálpa'og eptir mig sinn, eins og frá sjálfum mér numinn.

7. Huggar það mig við þá mæðu eg sje; mildastur Faðir að lætur í tje, sképnum hvað hagar, hans vísdómur veit, vel öllu skipa um hvern reit.

8. Friðargjöf himnesk, er fyllir mitt brjóst: að fús er eg skyldum leynt gégna sem ljóst, boðar mér, sæl að á baki við gröf, búin sé helgudum lífgjöf.

9. Traust það og gjörvöll á Guði von
fest, góðri með samvitsku' er styttan min
best. Skylda! gladt samvitsku boðorð!
þú ber, bjart ljósið efans í nótt mér.

10. Eg þángað fylgi, sem ávísar mér,
engar því festar mér halda frá þér, engri
mig negun skér umliðin tíð, engann af
framtíð eg geig bið.

11. Réttann þú leiðir mig ráðvendni-
ls stig, rans yfir hégómlegt dáranna' og
mig, til manna fremdar og fagnaðar
ber, fyrir því heilsa'eg og lýt þér.

12. Mig þvingun leysir þú maðlegri
frá, mig huggar sakleysi lífsins stig' á:
mig styrkir hugprýði framgáng að fá,
fullkomnun tignara lífs ná.

## No. 351. (21.)

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Herra! sem boðað hefir mér, heilagt
líferni' að gédist þér; mitt líf þér
helga hjálpa þú, helgunar krapti mig út-
bú, svo að ráðvendni ljóst og leynt, lýsi
jafnan mitt dagfar hreint.

2. Ef þú mér, Drottinn! leggur lið,
löst og ódygð að skiljast við, eg mun á-
stunda eins og ber, allt sem eg veit að

líkar þér, og trúr uns þrýtur æfin mín, med alúd rækja bodord þín.

3. Sá dygda feta feril ann, farsældar leid æ gengur hann; ad sídur skeiki, eg því skal, adgætinn vanda rád og tal; vor Gud! leidtogi vertú mér, von-gódur skal eg treysta þér.

4. Olucka megnar engin þá, ánægju mér ad ræna frá; daudann mun eg ei hrædast hót, honum öruggur taka mót, og hverju sem ad höndum ber; hjálp og nád þar til veittú mér!

---

## VII. Réttlæti, Gódsemd.

### No. 352. (22.)

Lagid: Heimsins Stýrir forsjón fasta.

Séf oss, Fadir! tvíllaust trúa, tíd ad ljentir fjör og stétt, oss á jörd ad undirbúa, eilífd, heill og sælu rétt; lærdóms skóli líf ad er, leid til himins gaungum hér; þar réttlæti og gædska gledur, gódann dygdar umbun medur.

2. Öll þín stjórnan hér í heimi, hátign þinni lýstir bert; engu mild ad gædskan gleymi, Gud! réttlátur Fadir sért. Þín réttvísi og gædska gód, géfur bod og

dæmid þjód, góds og réttar öllum unna, og sem best þér líkjast kunna.

3. Oss hvad kjósum, ödrum velta, eins réttlátur Kristur band; af því vernda egum leita, annars sæmdir, rétt og aud; hefja' upp ydn, en heidra dygd, hata öfund, róg og lygd; hann, er eblir sérhvers sóma, sjálfur ödlast væga dóma.

4. Dóma ber oss velja væga, vyrda brædur hér á stord; gódum heit um gæfu næga, gaf og miskun Drottins ord. Sama Födur egum ad; allir ad sælu keppum stad; allir marga bresti berum; bágt er ad dylja: veikir erum.

5. Réttvís Gud! lát rétt á jördu, réttann leida menn á stig; ei med brædra ofur hördu, ófelli þeir dæmi sig; allir þurfum vægdar vér, veit oss rétt, sem hverjum ber, vyrda hér, ad sæld og sómi, sé oss vís ad efstum dómi.

---

## VIII. Þolinmædi.

### No. 353. (23.)

Lagid: Kristnir menn! umfram allar tídir.

Ef vér í þúngar raunir rötum, rádstöfun Drottins tökum vel, og þolin-

mædi aldrei glotuun; álituin vort um Födur-þel, ad mildur typtar, oss þvi ann, og til betrunar leidir hann.

2. Þó mædu finnum þúngt ad bera, þjáníng ógæfu teljum vort, hún til betrunar víst má vera, oss valid medal hendt og gott: Þad traust, ef adber þraut og kross, i þolinmædi styrkir oss.

3. Oþolinmædi ollir meiri, ármædu, skapar mögl og qvein, þeim er vid reynslu illa eirir, afmældann skérf og sorga mein; en þolinmódum af þeim rís, ædri fullkomnan, huggun vís.

4. Samvitsku þegar geymum góda, gérsemi dýrast jerdu á, mótlæti eckért mun ofbjóda, menn best rósamir finna þá, í ordu náttúru allt ad fer, edli sam-bodid hennar er.

5. Fullvissan, vel um stund ef strídum, strax eilífd brosi glød oss vid, ollum burtfeykir ángurs hrídum, ánægju blessar værd og frid. Sem reyk hún heimsins reiknar glis, rauna skammvinnsann þúnga fis.

6. Oss Jesús kénndi ljúfur lída, lífs og deyandi krossi á, og vilja Fødurs besta bída, hyljum uns létti sorga frá; þeim,

sem með honum hngrór leið, heiður við sigur eptirbeið.

7. Hvað eru fánþt! heimsins gæði? hvað stundleg þjáning, böl og hrigð? allt sig að reikna eru bæði, mót æðri dýrð í sællra bygð; þess vegna rór eg þygg og þer, það Faðir ástkjær velur mér.

## No. 354. (24.)

Lagið: Gæðsku Guðs vér prísum.

Vor Guð á himna hæðum, heilagi Faðir kjær! í hverskyns hrigð og mæðum, hjálp þína reynum vær, um vora æsitíð, ef þig elskum af hjarta, á oss mun trúfost skarta, Guð vor! þín gæðskan blíð.

2. Af elsku oss til bótar, aggr þú, Faðir! oss, svo vorumst lesti ljóta, leggur á raun og kross, hjálp veitir hirting með; því er skyldt þessu tækjum, með þock og jafnan rækjum, þér hlýðið þolugt géð.

3. Ef lætur oss tilfalla, andstreymi, sorg og neyð, þína send aðstoð alla, æfinnar skunda leið, trúrækni traustí með, svo að þolgóðir þreyjum, þar til burt héðan deyjum, þitt prísum gæðsku géð.

4. Sist munu heimsins brigdir, hér mega jafnast vid, eilífar yndis bygdir, og ædstann dýrdar frid, sem oss þinn Sonur bjó, viljugur þá hann þoldi, þjáníng á sálu' og holdi, og qvalinn á krossi dó.

5. Hans þolgéds dýra dæmid, dygd og lífernid hreint, oss fremur øllu sæmi, og hvetji ljóst og leynt, feta hans fotstig í; vilji þinn á oss verdi, vor Gud! þó neyd adherdi, og mótgángs skyggi ský.

6. Ef þolinmódir þyggjum, þad sem ad høndum ber, og hellta einum byggjum, ørugga von á þér, sist mun oss bregdast sú, veit oss því vel ad strída, og vilja þínum hlýda, med þolugri þreja trú.

---

## IX. Hreinlyndi.

### No. 355. (25.)

Lagid: Túnga mín af hjarta hljódi.

Gud oss hér í sambúd setti, svo vér glédjumst brædrum med, undir hverr med ødrum létti, ebli lán og hressi géd; ástúd geymi, hér í heimi, hreinlyndt þelid øllum tjed.

2. Líkhams fama limir erum, lands tíbúa samfélags; því til heilla hradir verum; hverr svo annars leiti hags, ei med flærdum, eydum værdum; endurgjaldsins minnumst dags.

3. Peim í skøpun veit sér vera, veitta manna tignar stétt, illa somir iñra bera, úlfa skap og refa prett; kjafsi ríkur, kjæñ er svíkur, Krists svikara líkist rétt.

4. Hverr einn því af hjarta mæli, hreinann sannleik brædur vid; ei med flærd edur øfund kjæli; elski dygd, en stundi frid; ødrum soma, uñi'og blóma, egin sæmda rati mid.

5. Hreinlyndt, Drottiñ! hjá oss skapa, hjarta'og minna vyrdstú á, manna varast vyrdíng tapa, vjelum af sem leidaz má. Sælir einir hjarta hreinir, heilagt fá þitt auglit sjá.

## X. Blídlyndi.

### No. 356. (26.)

Lagid: Hvar mundi vera hjartad mitt.

Oll er þín ræda elska'og nád, ástríkt Gud! til mín, hýdur hjálprædis bestu rád, oss blessud gjædskan þín; hýrust

blída um hvert eitt láð, af hátign þinni skín, ílla því sómir, beiskjan bráð, bræðrum á milli sín.

2. Lát oss ástunda að líkjast þér, ljúfmennska sé oss kjær, svo alúð blíðu og hógværd hér, hverr ødrum tjáum vær; øfuglig svør og ordin þver, umgengni þokist fjær, en hinn í þína ætt sig sver, øllum sem góðsemd ljær.

3. Frelsarans dygða dæmi á, daglega festum sjón, øllum sem gjørdi elsku tjá, engum baud stygdar-tón, aldrei hóglyndi blídu brá, þó brixla heyrdi són, óveitta lét sér aldrei frá, aumingjans fara bón.

4. Þvílíkt blídlyndis dæmi dýrt, Drottinn Jesú! eg bid: láttú þad á mér skína skírt, skaplyndis bæta sið; vinsemd æ gjørí vidmót hýrt, velunnan sérhvern vid, svo høndlad fáum hnoss órírt, hjá þér í dýrdar frid.

## No. 357. (27.)

Lagid: Einn Herra eg best ætti.

O Jesú! oss sem hefir, afrekad lausn og grid, þín gudleg náð oss géfur, gledi og andar frid, sjálfañ þig lítilægd-

ir, og leidst á krossi devd, vid Födurinn oss frid-þægdir, fær því ei grandad neyd.

2. Auðsýna ollum nádir, ástríki og hógvært géd, hlýdinn Guds vilja gádir, gjædsku'og blídlyndi med, fjandmonnum fridar beiddir, Fodur þinn krossi á, og vina evmd úrgreiddir; á þegar nockrum lá.

3. Blídlyndis dæmid dýra, devandi'og lífs, er þú, andsýndir, oss lát stýra; á-stundan vor skal sú; þinn dygda feril feta framast sem kunnum vér, veit oss þad vilja'og géta, vor Gud! ad líki þér.

---

## XI. Hófsemi.

### No. 358. (28.)

Lagid: Kristnir menn! umfram allar tídir.

Um daglegt brand þú Drottinn bídur, dugir þér ei þó veitist nóg, olla því mun þinn óhófs sidur, eydir meiru enn vinnur plóg; sparseminni sá aldrei ann, ósaka má ei Gjafarann.

2. Láttú þér nægja þad sem þyggur, þegid stunda þú nota rétt; mun þá veit-ast hvad mest áliggur, medal til gengis

hóf er sett; en óhóf sendir erbirgd hér, opt hinni velferd skadvænt er.

3. Oss fædi'og klædi látum lynda, hó leggjum hug á sælli kjer; aud'egd opt dró til óhófs synda, en vid sællist spilltist fjor; gjorum hví mun á girnd og hörf, aermid er oss heill vid hóf og storf.

4 Ofhyngja hjörtun géf ei gjorum, gódi Fadir! um lífsins stund, óhófi med, en framar förum, forsjálleg med hegid pund; vellyst syndugri vísum frá, verdugri gledi lát oss ná.

## XII. Ofund.

### No. 359. (29.)

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín.

Gud, sem Fadir oss gjæfu ann, gáfum, sæmd, láni skiptir hann, eins og best hverjum hagar; annora heill hverr yfir sá ofsjónum, vesæll heita má, eitrud hann ofund nagar.

2. Vid sig hann adra samanber, í sæld og verdúng, telur sér, ojofnud einatt veittánn; ásakar vísdóm ædstann hátt, auga rángsnúnu litur hrátt, sæmd, blessun bródur skreyttann.

3. Øfunda dýr eins mundu mann, mörg þessu likt, en Engla hann, allt tignar ædri beidast; endanleg vera, sem ei sa, sinn gæfu skamt best henta, má, af øfund illa leidast.

4. Brennanda likt vid eld því er, øfund, þa menn hún qvelja fer, ánægju á burt flæmir; en villi-sidum býdur bygd, úr brjosti vísar æru' og dygd, og manna tign ósæmir.

5. Sín egin svipa øfund er, adra hvad tignar, gledja ber, hún æ med harmi lítur; af heipt því nagast, hana skjer, hvad gott og loflegt ord af fer, en ró-semd hvergi hlýtur.

6. Ogæfu fagna, olla kann, þeim, yfirburdi hvers hún fann, frá heillum Engla felldi; yfir oss synd og deyd hún dró, dygdugum Jesú píslir bjó, saklausañ dauda seldi.

7. Hverr fær útmálad illt þad allt, øfund sem verkar þúsundfaldt, ødrum til bøls og baga? óróa vekur, eymd og stríd, ánægju hrekur burt frá lýd, og lífsins eitrar daga.

8. O! hversu manna er hún stétt, ágvordun, skyldu gagnstæd rétt, og því af ødrum kjósum! hvert mun þá vitska,

heiður, dygð, í hjúdi falin, ofund, lygð, af hverju ess þo hrósum?

9. O! hversu Jesú er hún óst, ólík, hvers dæmið best mun fást, gott vañ og meinin græddi; hañ bræðrum unna, hjálpa' í nauð, hógværð óvinum votta báud; svo breytti, sem hann fræddi.

10. O! hversu Drottins er hún ást, ólík, sem hvorgi skepnum brást, hún allann heiminn gleður; ránglátum upp hans rennur sól, réttlátum líkt, og sér hvert ból, regn frjófsamt gæðum gleður!

11. Kenn oss o Guð! þitt geyma vel, gæðskuríkt boð, hreint bræðra þel, í ást og alúð sýna; og manna vyrða æru' og stétt, ofund frásneiddum stunda rétt, svo oðlumst þóknun þína.

---

## XIII. Jesú Eptirbreytni.

### No. 360. (30.)

Lagið: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.

Góði Jesú! lát mig læra, að líkjast þér, sem best eg má, vegsemd mín það er og æra, aðstoð vyrðst mér breiskum

tjá! ef lockar synda lysting mig, líta, Jesú! gef mér þig, dæmi þitt á byggd mig hvetji, dýrstum þér svo fylgt eg géti.

2. Þú, hvern dýrka andar æðstu, ofan til vor komst á jörd, leidst þolgódur lægíng stærstu, lemstur, sár og böndin hörd; allteins gef í audmýkt hér, ástundl'eg ad líkjast þér, hvert luckn brest eda lán þú sendir, ljúft sé mér af þinni hendi.

3. Elska heitust upp þig hvatti, erindi framqvæma þitt, eptirlætti mesta mattir, ad mañkyn yrdi'af syndum qvitt; unn mér kall mitt rækja rétt, rádvendnin í minni stétt! gef mér þar af gledi hljóta, ad gjöra ödrum mest til bóta.

4. Fyrir líf og ljós ad senda, laun þú hrepptir spott og neyd, trúr þó reyndist allt til enda, er þú leidst hinn stránga deyd, eins á krossi eñ badst þú: æ þeim, Fadir! forlát nú! heimur illt fyri gott þó gjaldi, gef eg trú og sigri haldi.

5. Födurs vild þig fúsu gédi, fólst þá mæddi qvölin sterk, hans á fund þú fórst med gledi, fullkomnad vid lausnar verk; helstríd þá ad höndum ber, Herra! gef eg líkist þér, svo ávöxt þínu ódlist þinnar, ædstu gledi sálar minnar.

## No. 361. (31.)

Lagid: Nú bid eg, Gud! þú nádir mig.

Sæll er sá mann í heimi hér, hvört Drottins sem ablar sér, elskar, tilbidur, heidrar hann, Herra sinn Gud og Skaparann, grandvar ad sínu gáir stétt, gagnsemd medbrædra stundar rétt; lífs ferli Jesú fylgir sá, farsældar nýtur himnum á.

2. Sæll er sá hóffemd heldur vid, hegdun stillta og gódann sid; hvíad allshattar ohóf kan, andleaum heillum svipta mann; godfúst og blídt sá lyndis lag, í ilsforni vottar sérhvern dag, rétta leid dygda heldur hann, hégværdar-skeid, sem Jesús rann.

3. Trú og þolgædi ad temja sér, til ædri heilla vegur er; óþolinmædi og óró því, eymdirnar fleiri steypir í. En sannleik elska' og una vid, unna hreinskilni og dygda sid, af Jesú lífi læra má, ljós sé þad manna vegum á.

4. Kjærleikans dygd sá ætíd an, eptir farsældar götu rann; hræsni hvergi né ágirnd á, né undirferli rasar sá; eitri þúngada øfund hann, illgirni líka ford-

ast kann; ad Jesú dæmi gjörir gott, góð-
ann mannelsku sýnir vott.

5. Ástrikki Faðir! ebl hjá mér, allar
dygðir, sem líka þer; lastaña stríða lock-
un gégn, ljena mér nægann krapt og
megn, þann svo lífs feril feti'eg hér, sem
Freilsarinn Jesús kénndi mér; þá mun
eg síðan finna' og fá, fullsælu þreyða
himnum á.

## No. 362. (32.)

Lagið: Kristi! vér allir þeckum þér.

Lausnari! dæmið láttú þitt, leiða mig
hverju sinni, að laga gjörvallt lífið
mitt, lífs breytni eptir þiñi; líferni þitt
og lífsins orð, lýsi mér ætíð hér á storð,
svo réttann feril finni.

2. Sá þín lidþursi leita vann, líkn
fann og æðstu mildi, óbænheyrdañ lét
aldrei þann, andvarp hans heyra vildir,
en hversu tíðum erum vér, ólíkir góði Je-
sú! þér, að gjöra gótt sem skyldi.

3. Feðurnum blýðiñ varstú vel, veg-
sama nafn hans gádir, og hverjum mañ
hjarta-þel, hógvært auðsýna náðir; en
hrokafullt vort hjartað er, á höndum oss
nær luckan ber, vinir opt verða smáðir.

4. Þú girntist Föður þínum best, þjónk-
un og hlýðni veita, allt að kross deyð,
og öllum mest, elsku þú sýndir heita; en
vér þín blessuð boðorð tíðt, brotið höfum
og syndum hlýðt, forsómað frelsis leita.

5. Ovina grimmust íllska og slægð,
ei vakti reiði þína, blíður fyrir þeim
baðst um vægð, er beisk þig særði pína,
en hjá oss tíðum upptendrast, íllgirni,
reiði, hefnd og last, menn þá oss mót-
gjerð sýna.

6. Þín dygða kénníng klár og hrein,
krapt sinn auglýsti víða, þitt heilagt líf í
hverri grein, hjartans ástsemi blíða, eins
gef oss vilja, afl og magn, að efla bræðra
sanna gagn, og lifnaði lærdóm prýða.

7. Allir biðjum þig, o Jesú! aðstoð
oss milda senda, dygð að varðveita' og
vora trú, varfærnum lífs til enda; vér
í þín fotspor setum þá, fullsælum
uns þér sjálfum hjá, veitist að lok-
um lenda.

## XIV. Utfarar-Sálmur.

(á Látínu qveðinn af *Prudentius.*)

## No. 363. (33.)

1.

Jam mœſta quieſce querela,
Lacrymas ſuſpendite, matres!
Nullus ſua pignora plangat,
Mors hæc reparatio vitæ eſt.

2.

Quidnam ſibi ſaxa cauata?
Quid pulchra volunt monumenta?
Res quod niſi creditur illis
Non mortua, ſed data ſomno.

## Sami Sálmur á Íslendsku,

(útlagður af Dr. *M. Stephenſen.*)

1.

Oll harma-qvein hætti ad finni,
Haldi Náúngar tárunum inni!
Ei ber ſofnaðann áſtvin að gráta,
Lífs endurbót dauðann má játa.

2.

Hví ſkrautbúna legſtaði lítum?
Leidin á riſtar minníngar ítum?
Merkja þau að mold þar umveſur,
Mann, ſem ecki' er dauður, en ſefur.

3.
Nam quod requiescere corpus
Vacuum sine mente videmus,
Spatium breue restat, ut alti
Repetant collegia sensus.

4.
Venient cito sæcula, cum jam
Socius calor ossa reuisat,
Animataque sanguine viuo
Habitacula pristina gestet.

5.
Quæ pigra cadauera pridem
Tumulis putrefacta jacebant,
Volucres rapientur in auras
Animas comitata priores.

3.
Því, liggja þó núna nú audann
Líkham, fjørl' og mannviti snaudann,
Ædri vit saman aptur hans leita,
Innan skamms honum skilníng ad veita.

4.
Hann gladur um skammt fær ad finna,
Fornann il vitja beinanna sinna;
Um-mindada eldri mun byggja
Endurlífgada veru ad byggja.

5.
Líkhamir þeim legstadir skýla,
Lidnir, þúngfærir, rotnir, sem hvíla,
Fyrri sálum fylgd munu veita,
Flug-hradir í hædir uppleita.

6.

Sic semina sicca virescunt
    Jam mortua jamque sepulta,
Quæ, reddita cespite ab imo,
    Veteres meditantur aristas.

7.

Nunc suscipe, terra! fovendum,
    Gremioque hunc concipe molli!
Hominis tibi membra sequestro,
    Generosa & fragmina credo.

8.

Animæ fuit hic domus olim
    Factoris ab ore creatæ.
Fervens habitavit in illis
    Sapientia principe Christo.

6.

Svo daud, grafin, fölnud í foldu,
Frækorn endurlifnud úr moldu,
    Fagur-mindud grös framkoma sjáum,
    Fyrri feilast ad skúf-stengum háum.

7.

Jörd! tak nú vid líkhama lidnum,
Legg hann þér í skaut, vafinn fridnum.
    Limi manns þér til voktunar vel eg,
    Hans veglegar leifarnar fel eg.

8.

Hann var sálar herbergi fördum,
Hver mindud var Drottins ad ordum,
    J þeim bádum gudleg hér gisti
    Greindin ljent af höfundi Kristi.

9.

Tu depositum tege corpus,
Non immemor ille requiret
Sua munera fictor & auctor,
Propriique ænigmata vultus.

10.

Venient cito tempora justa,
Cum spem Deus impleat omnem.
Reddas patefacta, necesse est,
Qualem tibi trado figuram!



9.

Hyl, Jörd! geymdu látinn líkhama;
Hán heimta mun ógleyminn sama,
Og sér skilada Skaparinn bjóda,
Skugga-sjá sinnar smindar góda.

10.

Fljótt lídur til fagnadar tída,
Fyllir Gud Þegar alla von lýda.
Opin Þá mind aptur skalt greida,
Sem aldrana hér gjorum leida.



# Registur
yfir Sálmana, eptir Stafrofs röd.

a: bls. 384.

## Til Lesarans!

Hér birtist nú sú 4da útgáfa þeirrar evangelisk-kristilegu Messusaungs og Sálma-bókar, öldúngis samhljóða við hennar seinustu útgáfu. Einúngis er Sálma-tölunni áfram haldið í Viðbætirnum, sem óþarft vyrðtist að láta lausann medfylgja. Prentun Sálma-skálda nafnaña er nú í þessari útgáfu einnig sleppt og öllum eldri Formálum sem optar enn einusinni ór

þörfum. Prudentii látínski Utfarar Sálmur finnst nú líka hér prent. aður hjá hans íslendsku útleggíngu, svo hann ecki líði undir lok.

Við athugsamann endurlestur bókarinnar, hafa engar sérlegar Prentvillur fundist.

Videyar Kl. þ. 12ta Aug. 1825.

M. STEPHENSEN Dr.



## Þýding Skammstafananna.

við Registrið.

/: * er sett við þá sálma; hvörra höfundar þótti óljóser, og aptanvið skammstafað nafn þess; er vann að breytingu þeirra, eða tveggja, ef tveir unnu að henni. :/ — eptir XIta Útg.

Sálma tala.

13. A. T. tákn. Arnór próf. Jónsson.
1. D. Sch. — Davíð Scheving, Student.
10. E. J. — Einar pr. Jónsson.
1. E. S. — Einar próf. Sigurdsson.
1. G. P. — Grím próf. Pálsson.
2. Grönd. — assess. Bened. Gröndal.
2. G. Sn. — Gunnlaug pr. Snorrason.
1. G. T. — Gudmund pr. Torfason.
4. 5 G. V. — Geir bp Vídalín
13. H. J. — Hallgrím Jónsson, djákna.
12. H. P. — Hallgrím pr. Pétursson.
1. H. R. — Halfdán pr. Rafnsson.
9. J. Esp. — Jón sýslum. Espólín
51. J. H. — Jón pr. Hjaltalín
2. J. J. — Jón pr. Jónss. á Gr. g Möðruv.
1. J. O — Jón próf. Ormsson.
10. J. Þ. — Jón pr. Þorláksson
28 Kr. J. — Kristján próf. Jóhannsson.
o. 40 } br. 49 } M. St. — Dr. Magnus Stephensen.
1. O. E — Odd bp Einarsson.

2. O. I. tákn. — Olaf pr. Indridason.
1. O. S. — Olaf próf. Sigurdsson
2. S. E. — Sæmund pr. Einarsson.
10 S. I — Sigurd pr. Jónsson.
2. St. I. — Stein bp. Jónsson
4. St. O — Stephán próf. Olafsson.
3. Svb. E — Sveinbjörn Egilsson, Rector.
o. 6 / kr. 1. } Þ. B — Þorvald próf. Bödvarsson
1. Þ. I. — Þórarin pr. Jónsson
2. Þ. St. — Þorvald pr. Stephansson
18. Þ. Svb. — Þorstein pr. Sveinbjarnarson.

